# ÍSLENZK

# MÁLMYNDALÝSÍNG

EPTIR

HALLDÓR KR. FRIÐRIKSSON.

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

---

KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.

# ÍSLENZK

# MÁLMYNDALÝSÍNG

EPTIR

HALLDÓR KR. FRIÐRIKSSON.

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

---

KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.

1861.

# FORMÁLI.

Í ÞAU 12 ár, sem jeg hef verið kennari við latínuskólann í Reykjavík, hef jeg ávallt fundið til þess örðugleika, sem af því hefur risið fyrir mig í tilsögn íslenzkunnar, að engin málfræðisbók hefur verið til, er væri við hæfi pilta og fullnægði þörfum þeirra. Málfræðisbækur *Rasks* heitins hafa mjer eigi fundizt vera til þess lagaðar; því að hin bezta þeirra: *„Anvisning till Isländskan, Stockholm 1818,"* er í fyrsta lagi á sænsku, og auk þess heldur stór fyrir skólabók; en þótt hvorugt þetta hefði verið til fyrirstöðu, þá er hún nú með öllu út seld. Hin litla málfræði hans, *„Kortfattet Vejledning, Kjöbenhavn 1832"* og 2. útgáfa 1834, er fremur þung fyrir unglinga, tæki það því upp mikinn tíma, ef koma skyldi piltum í nokkurn veginn skilning um eðli íslenzkunnar, samkvæmt þeim reglum, sem þar eru gefnar, og meiri tíma, en piltar geta fengið í skóla frá öðrum námsstörfum. Jeg hef því hingað til neyðzt til, að hafa hina stuttu málfræði, er jeg hef samið og stendur framan við lestrarbók þá í íslenzku, er jeg gaf út í Kaupmannahöfn 1846, með því hún er einföld, og öll niðurskipun hennar óbrotin. En jeg hef þó ávallt fundið til þess, að hún eigi fullnægði kröfum mínum í kennslunni, eptir því, sem mjer virðist kennslan í íslenzkunni ætti að ná langt. Jeg rjeðst

því í, að rita bækling þennan, sem hjer kemur fyrir almennings-sjónir, og þótt mörgum kunni að finnast honum abótavant í mörgu, verð jeg að biðja góða menn að gæta þess, að hann er einkum ritaður í þeim tilgangi, að hann væri hafður sem undirstaða fyrir íslenzkukennslunni í latínuskólanum, eptir því, sem mjer virðist hún ætti að vera, eða með öðrum orðum: eptir því, hverja þekkingu að mjer finnst piltar í latínuskólanum þyrftu og ættu að fá á sinni eigin tungu.

***Höfundurinn.***

# I. KAFLI.

## HLJÓÐFRŒÐIN.

Bókstafirnir eru sumir hljóðstafir, og sumir samhljóðendur, og skal nú fyrst lítið eitt talað um hljóðstafina.

### A. Um hljóðstafina.

#### 1. gr.

Hljóðstöfunum má skipta eptir hljóði sínu í granna og fláa.

Grannir eru: *a, e, ö, i, o, u, y.*

Fláir eru: *á, æ, í, ó, œ, ú, ý, au, ey, ei.*

Önnur greining hljóðstafanna er sú, að þeir eru annaðhvort einfaldir eða samsettir.

Einfaldir eru: *a, e, ö, i, í, o, u, ú,* því að þeir stafir hafa í sjer, hver um sig, sjerstakt hljóð, sem með engu móti verður sundur greint.

Samsettir hljóðstafir eru:

a) límingar: *á, æ, ó, œ, y, ý;*

b) lausaklofar: *au, ey, ei;*

c) klofningar: *ja, je, jö, já, jo, jó, ju, jú.*

Límingar eru nefndir svo, sökum þess, að þar eru tvö hljóð borin fram í einu, og úr þeim gjörður einn stafur, eins og t. a. m. æ er eptir hljóði sínu sett saman af *a* og *í; y* hefur að fornu fari haft sama hljóð og *ui* borið fram í einu atkvæði, eins og sjá má, er fornmenn rita bæði *kvikindi (v = u)* og *kykvendi,* o. s. frv.

Lausaklofar heita svo, sökum þess, að hljóð þeirra er sett saman af tveimur, og heldur hvort fyrir sig hinni vanalegu mynd sinni óbreyttri.

Klofningar heita svo vegna þess, að þeir eru, hver um sig, fram komnir af einum staf, þannig, að úr honum eru orðnir

F

tveir stafir, eins og t. a. m. *ja* er klofið úr *i;* þannig er *fjarð* runnið af stofninum *firð; bjart* af *birt;* og þannig má það verða til leiðbeiningar, hvort rita skuli *i* eða *y,* með því hljóð beggja stafanna er nú hið sama, að gæta þess, hvort *ja* kemur fyrir í einhverri annari mynd orðsins, eða öðrum skyldum orðum; því sje svo, skal *i* rita, en eigi *y,* því nær ávallt; þannig t. a. m. *birni, birnir;* því að eig. eint. er bjarn; að *firra,* því að atv. er fjarri; að *skirrast,* því að eink. er *skjarr* (= *styggur*); þó skal rita *gyrða* (með gjörð).

2. gr.

Hljóðstafirnir skiptast og í íslenzku eptir uppruna sínum í þrjá flokka: *a*-flokkinn, *i*-flokkinn og *u*-flokkinn og er sú skipting þannig:

| *a* | *i* | *u* |
|---|---|---|
| *a* — *á* | *i* — *í* | *o* — *ó* — *u* — *ú* |
| *ö*-*e* æ | *ei* | |
| *au* | | *y* *ý* |
| *ey* | | |

3. gr.

Það köllum vjer hljóðvarp, þegar einhver hljóðstafur breytist í annan úr sama flokk, sökum þess, að einhver sá hljóðstafur fer í næstu samstöfu á eptir, sem veldur þessari hljóðbreytingu, með því að hljóðið í undanfarandi samstöfu dregur í framburðinum nokkra líkingu af hinum eptirfarandi hljóðstaf.

Í *a*-flokknum og *u*-flokknum getur hljóðvarp orðið, en *i* og *u* valda hljóðvarpi, þegar þeir fara í næstu samstöfu á eptir.

4. gr.

Það hljóðvarp, sem *u* veldur, er það, að *a* í næstu samstöfu á undan breytist í *ö,* t. a. m. *tala* — *tölu; saga* — *sögur, hallur* — *höllum,* o. s. frv. Opt er það, að *a* breytist í *ö,* þótt *u* eigi fari á eptir, og er það sökum þess, að *u* hefur upphaflega farið á eptir, en er fallið aptan af, og það áður, en vjer höfum sögur af íslenzkunni; en þetta *u* má opt finna í öðrum eldri tungum, skyldum íslenzkunni, t. a. m. gotnesku; þannig t. a. m. *för,* af stofninum *far,* á gotnesku *faru; hönd,* af stofninum *hand,* á gotnesku *handu,* o. s. frv. Af þessu leiðir, að þegar *a* breytist í *ö,* og *u* fer ekki á eptir,

má telja það með öllu víst, að *u* hafi þó einhvern tíma farið á eptir, en sje fallið í burtu. Stundum fer *v* á undan endingunni, þar sem hljóðvarp verður í meginhlutanum, og hefur það þá upphaflega heyrt meginhlutanum, og verið *u*, og veldur þannig hljóðvarpinu; t. a. m. *ör*, gjör. fleirt. *örvar; fjör*, þigg. eint. *fjörvi*, o. s. frv. Þau orð, þar sem *u* er fallið aptan af, eru einkum:

1. Eins atkvæðis kvennkennd nöfn, í gjör., þol. og þiggj. eint., t. a. m. *för, hönd, rönd, strönd*, o. s. frv. Enda kemur *u* opt fram í þessum orðum þann dag í dag, eins og þegar vjer segjum: *á sólu, á jörðu* og *jörðunni*, o. s. frv.
2. Hvorugkyns orð í gjör. og þol. fleirt., t. a. m. *land — lönd, barn — börn.*
3. Nokkur karlkennd orð í gjör. og þol. eint., t. a. m. *völlur — völl* (stofninn *vall*), *fjörður*[1] — *fjörð* (af *fjarð*), o. s. frv.
4. Einkunnir og einkunnar-fornöfn, í gjör. eint. í kvennkyni, og gjör. og þol. fleirt. í hvorugkyni, t. a. m. *spakur, spök; hallur, höll*, o. s. frv.

Á hinn bóginn fer *u* stundum í endingunni, og veldur þó eigi hljóðvarpi, eða *a* stendur óbreytt í meginhlutanum, t. a. m. í gjör. eint. karlkenndra nafna, og gjör. eint. í karlkyni einkunna, t. a m. *dalur, halur, hallur, snjallur*, o. s. frv., og er það sökum þess, að ending þessara orða var í forntungunni að eins *r*, *(dalr, halr, hallr, snjallr)*; en ef *u* er ekki í fornmyndum orðanna, veldur það eigi hljóðvarpi, þótt síðar sje inn skotið.

Það er skylt hljóðvarpi, er *a* breytist stundum í *u*, þegar *u* fer á eptir; en það á sjer stað í síðara atkvæði tveggja-atkvæða-orða, eða þeirra orða, þar sem meginhlutinn er tvö atkvæði, og breytist þá *a*, ef það er í fyrra atkvæðinu, í *ö*; þannig t. a. m. *harpari*, í þiggj. fleirt. *hörpurum; kallaði, kölluðum; kennari, kennurum.* Sama breyting verður og á *a* í öllum þeim tveggja-atkvæða-orðum, þar sem áður er um getið að *a* breytist í *ö*, sökum þess, að *u* hefur þar verið hin upphaflega ending; þannig t. a. m. *sumar*, gjör. og þol. fleirt. *sumur; gamall, gömul; yðvar*, gjör. eint. í kvennkyni og gjör. og þol. fleirt. í hvorugkyni: *yður*, o. s. frv.

1) Í þessum orðum fer reyndar *u* á eptir í gjör. eint., en það *u* heyrir hinni nýrri tungu, en í fornmálinu var þar ekkert *u*, en þó átti hljóðvarpið sjer stað í meginhlutanum.

5. gr.

Þau hljóðvörp, sem *i* veldur, eru þau, er nú skal greina:

*a* verður að *e* (*hand = hönd, hendi*);
*á* — - æ (*háttur, hætti; dráttur, drætti; hár, hærri*);
*au* — - *ey* (*flaug, fleygi*);
*o* — - *y* (*sonur, syni*);
*o* — - *e* (*hnot, hnetur;* áður *hnetr* f. *hnetir*);
*ó* — - *ý* (*ból, býli*);
*ó* — - *œ* (*fótur, fœti; stór, stœrri; ból, bœli*);
*u* — - *y* (*þungur, þyngri; fundum, fyndi; brunnum, brynni*);
*ú* — - *ý* (*flúðum, flýði; húð, jeg hýði*).

Af þessum dœmum má það sjá, að af grönnu hljóði verður hljóðvarpsstafurinn ávallt grannur, og af fláu hljóði ávallt flár; þannig kemur t. a. m. æ ávallt af *á;* og þótt svo kunni í fljótu bragði að virðast, að flár stafur sje leiddur af grönnum staf í sumum orðum, eða grannt hljóð af fláu hljóði, þá má þó telja það víst, að eigi sje svo, heldur hafi annarhvor stafurinn breytzt síðar í málinu, eptir að hljóðvarpið var komið inn í málið, eða að það orðið, sem hljóðvarpið hefur, sje leitt af öðru orði, en það í fljótu bragði virðist vera leitt af. Þannig segjum vjer nú *tryði,* þál. tíð afleiðingarháttar, af *trúðum,* en fornmenn munu hafa sagt *trýði; dœlir* (þeir sem búa í einhverjum dal) kann í snöggu bragði að virðast vera leitt af *dalur,* en er það eigi, heldur af gotneska orðinu *dôl.*

æ virðist opt vera leitt af *o,* eptir því, sem tungan er nú orðin; en það er eigi þó svo að skilja, heldur er það leitt af *á;* því að alstaðar þar, sem vjer nú höfum *o* á eptir *v,* höfðu fornmenn *á* í staðinn fyrir *o,* og af því *á* er hljóðvarpið runnið, t. a. m. *vopn,* áður *vápn,* af því *alvæpni,* o. s. frv.

Stundum lítur svo út, sem *a* breytist í *i,* þegar *i* fer á eptir, eins og t.a.m. er vjer segjum *einbirni* (af *barn*); en það er þó eigi svo í raun og veru; heldur er þetta orð upphaflega *einberni,* en hefur síðar breytzt í *einbirni,* sökum hljóðlíkingar í *e* og *i.*

Eins er það með *i* og með *u,* að það eigi fer ávallt á eptir, þótt hljóðvarp verði, en er stundum alveg fallið burtu, stundum breytt í *j,* og stundum er annar stafur (*u*) kominn í stað þess; þannig t. a. m. jeg *tel; maður, menni; að telja, vjer*

*teljum; eigandi, eigendur; hnot, hnetur* (áður *hnetr*); *rót, rætur* (áður *rætr*).

Opt er það og, að *i* fer í endingunni, og helzt þó hljóðstafurinn í meginhlutanum óbreyttur, og á það sjer einkum stað í gjör. og þol. fleirt. kvennkenndra nafna, enda var endingin þar áður *ar*, en *ir* er yngri ending; þannig t. a. m. *för* (stofn *far*), gjör. og þol. fleirt. *farir* (áður *farar*); *grön, granir* (áður *granar*), o. s. frv. Sbr. *iljar, benjar, greinar* og *greinir*, o. s. frv.

## 6. gr.

Opt er það, að grannur hljóðstafur í endingum nafna fellur í burtu á eptir fláum, og eins í greininum, er hann er skeyttur aptan við nöfn, er enda á fláan hljóðstaf, og átti sú úrfelling sjer miklu optar stað til forna, en nú. Þannig t. a. m.

*áa* — *á* : *áanna* — *ánna, gráan,* til forna *grán;*
*ái* — *á* : *áinni* — *ánni;*
*áu* — *á* : *áum* — *ám;*
*óa* — *ó* : *klóanna* — *klónna;*
*ói* — *ó* : *klóinni* — *klónni;*
*óu* — *ó* : *klóum* — *klóm;*
*úa* — *ú* : *brúanna* — *brúnna;*
*úi* — *ú* : *brúinni* — *brúnni;*
*úu* — *ú* : *brúum* — *brúm.*

Þessi úrfelling hljóðstafa á sjer eigi að eins stað í nöfnum, heldur og í einkunnum og sögnum, t. a. m. *grán*, f. *gráan; hám*, f. *háum; sjám*, f. *sjáum*, o. s. frv. Þegar meginhluti orða endar á *i*, fellur það og burtu á undan endingar-hljóðstaf, t. a. m. *helli* f. *hellii*, þiggj. eint. af *hellir; hellar* f. *helliar; kvæðum* fyrir *kvæðium*, o. s. frv., enda er það aðal og einkenni íslenzkunnar, að tveim hljóðstöfum skuli sem óvíðast saman lenda.

---

# B. Um samhljóðendurna.

## 7. gr.

Samhljóðendunum má skipta í þrjá flokka, eptir því, hvernig talfærunum er beitt, til að nefna þá, eða bera þá fram.

1. Gómstafir: *k, g, j, h,* kallast svo vegna þess, að þegar þeir eru nefndir, leggst tungan upp í góminn.

2. Tannstafir: *t, d, ð, þ, s, z, l, r, n,* því að þegar þeir eru nefndir, þá leggst tungan að tönnunum.

3. Varastafir: *p, b, f, v, m,* því að varirnar eru einkum hafðar til að nefna þá.

4. *x* er sett saman af *k* og *s,* eða *g* og *s* (gómstaf og tannstaf).

Þá má og skipta samhljóðendunum eptir því, hvernig hljóðið er í hverjum samhljóðanda.

1. Hljóðstafabræður, *(semivocales): j, v;* kallast þeir svo, vegna þess, að þeir eru upphaflega fram komnir af hljóðstöfum, *j* af *i, v* af *u,* og valda opt sömu hljóðvörpum og *i* og *u;* t. a. m. *telja* (f. *telia),* af *tal; örvar* (f. *öruar),* af stofninum *aru,* o. s. frv.

2. Linstafir *(literae liquidae): l, m, n, r.*

3. Dumbir stafir *(literae mutae): k, g, t, d, ð, þ, p, b, f.*

4. Blísturstafir *(literae sibilantes): s, z.*

5. Samsettur stafur: *x.*

8. gr.

Um *k* og *g* skal þess getið, að þegar á eptir þeim fer, *æ, e, i, í, œ, y, ý, ey, ei,* þá er í framburðinum *j* skotið inn á milli, svo að framburðurinn verður:

*kjæ, kje, kji, kjí, kjœ, kjy, kjý, kjey, kjei;*
*gjæ, gje, gji, gjí, gjœ, gjy, gjý, gjey, gjei;*

en eigi skal þó svo rita, heldur að eins *kæ, (kær), ke (ker),* o. s. frv. Þegar *k* stendur á millum *s* (eða *z)* og *t,* verður það eigi heyranlegt í framburði vorum, t. a. m. *sœnskt, írskt, enskt, danskt, þýzkt, sunnlenzkt,* o. s. frv.

Athugasemd. Þar sem *k* fór á undan *n* í upphafi orðs, þar hefur það breytzt síðar í *h,* t. a. m. *knje, knífur,* nú *hnje, hnífur.*

*g* er stundum hart, og stundum lint; lint er það nú í enda atkvæðis, ef hljóðstafur, hver helzt sem er, fer á undan, og eins í miðju atkvæði, ef *r* fer næst á eptir, t. a. m. *haga, hœgur, vígum, fluga, fagran, fegra,* o. sv. frv.; en *logn, ugla,* o. s. frv.; því rita fornmenn og opt *gh,* þar sem hljóðið er lint.

Ef *g* stendur í miðju orðs, og hljóðstafur fer á undan, og

einhver þeirra hljóðstafa á eptir, sem þegar voru nefndir, eða *i*, verður það óheyranlegt, eða breytist í *j* eða *í*. Óheyrilegt verður það á eptir *au, ey, ei, æ, í, œ, ý, i, y, (haugi, heygi, hneigi, vægi, vígi, bœgi, drýgi, stigi, lygi)*; en *i* og *y* eru þá bornir fram eins og væru fláir stafir, *í* og *ý*. Að *j* verður það á eptir *á, ó, ú (mági, bógi, ljúgi)*; að *í* verður það á eptir *a, e, o, u,* og dregst þetta *í* saman við hljóðstafinn, sem á undan fer, og eru báðir bornir fram í einu *(hagi, degi, logi, flugi)*.

**Athugasemd.** *g* á undan *t* verður hart í framburðinum, líkt og *k*, enda rita fornmenn opt þá *k* fyrir *g*, t. a. m. *sannlikt* f. *sannligt*, *sakt* f. *sagt*; o. s. frv.

*g* verður óheyrilegt eptir framburði vorum nú á dögum í enda orðs, ef á undan fer *á* eða *ó*, og mun ávallt hafa verið óskýrt fram borið, og þess vegna er því og sleppt opt í riti í eintölu þálegrar tíðar ýmissa sagna, t. a. m. *lá, dró, vó* (af *liggja, draga, vega*). Eins er: *lág* ( = *laut*), *dróg* ( = *hestur*) borið fram *lá, dró*.

*g* heyrist eigi á millum tveggja samhljóðanda, þ. e. ef á undan því fer *l* eða *r*, en *t, d, ð* eða *n* á eptir, en þó skal það rita, t. a. m. *fylgt, margt, fylgdi, mergð, morgni, morgna*.

*g* í orðinu *guð* og öðrum þeim orðum, sem af því eru leidd, er borið fram eins og *gv* (*gvuð*).

Áður fyrrum var *g* sett framan við mörg þau orð, sem nú hefjast á *n*, t. a. m. *gnaga, gneisti, gnógur*; og eins *glíkja, glíkur* (f. *líkja, líkur*); en nú er þetta *g* víðast horfið.

*h* er nú sumstaðar borið fram eins og *k*, ef *v* fer næst á eptir því, t. a. m. *hvaðan*, borið fram *kvaðan*, o. s. frv.

*h* er stundum óheyranlegt í miðju samskeyttra orða, t. a. m. *varðhald*.

**Athugasemd.** Í fornmáli er opt *h* sleppt á undan linstaf, *l, n, r*, t. a. m. *laupa* = *hlaupa*, *nezla* = *hnezla*, *rata* = *hrata*, o. s. frv.

Um *t* er það athugavert, að það hverfur stundum í framburðinum, ef *s* fer næst á eptir, og einkum, ef *s* fer næst á undan því, t. a. m. *hests, prests;* eins og *vatns* (framb. *vass*), og eins á millum *s* og *n*, t. a. m. *kostnaður*.

*ð* er haft:

1) í miðju eða enda atkvæðis, ef hljóðstafur fer næst á undan því, t. a. m. *maður, með, miðjum, móðga, muðla*, o. s. frv.

2) á eptir *g, r, f, gg, rr, rg, rf,* t. a. m.: *lagði, marði,*

*lafði, byggð, kyrrði, byrgði, horfði.* Á eptir öðrum samhljóðendum skal *d* rita eptir núverandi framburði, þar sem annars dje-hljóð heyrist; t. a. m. *vandi, vildi, hrelldi, sigldi, skelfdi, ygldi,* o. s. frv.

*ð* verður aptur óheyrilegt í framburði vorum, er það stendur á millum *r* og *l* eða *n,* t. a. m. *harðla, stirðna,* o. s. frv.

Athugasemd 1. Fornmenn höfðu þar opt *ð* á eptir samhljóðanda, þar sem vjer nú nefnum og ritum *d,* og stundum þar, sem vjer nú höfum *t,* t. a. m. *vilði, kennði, vakði,* o. s. frv.

Athugasemd 2. Fornmenn höfðu þar *t* í endingum orða, þar sem vjer nú höfum *ð* á eptir hljóðstafi, og auk þess stundum síðast í meginhluta ýmissa orða, t. a. m. *loðit, mikit, annat; þjer farit, eg hefi farit; fórut, færit, vit (nos), þit, hvat, þat, at.*

Athugasemd 3. Fornmenn höfðu opt *þ* fyrir *ð,* og á hinn bóginn stundum *ð* fyrir *þ,* t. a. m. *ðat* f. *þat.*

*z* er borin fram eins og *s,* en er nú höfð fyrir *ts, ds, ðs,* þar sem þessir stafir eru bornir fram eins og *s,* og á því *z* að rita, þar sem eptir uppruna ætti að vera *ts, ds, ðs.* Þó er sú undantekning frá þessari reglu, að sje *s* beygingarending (það er í eig. eint. karlkenndra og hvorugkyns nafna, og eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni einkunna), þótt meginhluti orðsins endi á *t, d, ð,* þá er viðtekið, eigi að rita *z,* heldur *ts, ds, ðs,* eins og uppruni stendur til, enda þótt *s* eitt heyrist. Dœmi þessa eru: *veizla,* fyrir *veitsla* (af *veita); vonzka,* fyrir *vondska* (af *vond); gœzka,* fyrir *gœðska* (af *góð);* en *holts, hunds, lands, halts,* o. s. frv. En heyrist í framburðinum *ts, ds, ðs,* þá er sjálfsagt, að rita svo, t. a. m. *jeg hef náðst.*

Athugasemd. Fornmenn rituðu opt *z* fyrir *ts, ds, ðs,* þar sem vjer nú nefnum þessa stafi, t. a. m. *kvezk* fyrir *kveðsk* (= *kveðst*). Þeir rituðu og þráfaldlega *z* í enda sagna fyrir *st,* t. a. m. *lagðiz,* o. s. frv. Auk þess rituðu þeir og opt *z* fyrir *s* og *ss.*

*ll* í enda atkvæðis er borið fram eins og *ddl,* hvaða hljóðstafur sem á undan fer. Sama hljóð hefur nú *nn,* ef breiður hljóðstafur fer næst á undan, t. a. m. *kalla* (borið fram *kaddla); sæll* (borið fram *sæddl); brúnn* (borið fram *brúnn); seinn* (borið fram *seinn),* o. s. frv. En fari aptur á móti grannur hljóðstafur á undan *nn,* helzt hljóðið óbreytt í *nn,* og sömuleiðis, þótt breiður hljóðstafur fari á undan, ef grannur hljóðstafur á að fara milli breiða hljóðstafsins og *nn,* t. a. m. ef greinirinn er

skeyttur aptan við þau nöfn, er meginhluti þeirra endar á breiðan hljóðstaf, t. a. m. *ánni* ( = *áinni*); *ánna* ( = *áanna*); *brúnni* ( = *brúinni*); *tónna* ( = *tóanna*), o. s. frv.

**Athugasemd.** Það má ráða af skáldskap fornmanna, að þeir hafi borið fram *nn* með sínu eiginlega hljóði, t. a. m.:
*hann á höpp at sýnni* (Háttat. Snorra),
og *kænn lætr hres á hrönnum* (s. st.).

*n* í enda tveggja-atkvæða-orða er borið fram sem *nn*, en þó skal eigi svo rita, t. a. m. *drottin, háan, augun, framan, innan, utan,* o. s. frv.

*rl* og *rn* er optast borið fram sem *ddl* og *ddn*, enda þótt grannur hljóðstafur fari á undan, t. a. m. *jarl, páll; barn, girnast.*

*x* hefur sama hljóð og *gs*, en er að eins haft í þeim orðum, sem eigi eru leidd af öðrum orðum í íslenzku; en sje *s* ending, skal rita *ks* eða *gs*, eptir því sem meginhluti orðsins endar á *k* eða *g*. Þannig t. a. m. *lax* (fiskur), *sax, vaxa,* o. s. frv.; en *lags*, eig. eint. af *lag; loks* af *lok;* o. s. frv.

*b* heyrist ekki á millum *m* og *t* eða *d*, t. a. m. *kembt, kembdur,* o. s. frv.

*f* hefur ferfalt hljóð:
1) í byrjun orðs eða atkvæðis hefur það sitt eiginlega hljóð;
2) í miðju og enda orðs eða atkvæðis hefur það sama hljóð og *v* væri; nema því að eins
3) að *l* eða *n* fari á eptir, þá er að því kveðið sem *b*, t. a. m. *afl, tafl, efla, nafn, nefna,* o. s. frv.; og
4) ef *t* fer á eptir því, verður hið sama hljóð þess, og *p* stæði, enda er það við tekið, að rita þá *p* því nær alstaðar, nema því að eins, að *t* sje beygingarending. Þannig t. a. m. *skript* (af *skrifa*), *dript* (af *drífa*); en *haft* (*jeg hef haft*, af *hafa*), o. s. frv.

*fn* á undan *t* eða *d* er borið fram sem *m*, t. a. m. *nefnt, nefndi.*

*m* er í enda tveggja-atkvæða-orða borið fram eins og *mm* (*börnum, höttum, honum,* o. s. frv.), og sömuleiðis í *fram* og *um.*

Í ýmsum samtöfunum hverfur *n* í framburðinum; sjá síðar.

9. gr.

Tvöfaldir samhljóðendur á undan þriðja samhljóðanda hafa að nokkru óskýrt hljóð, og líkast því, sem hljóðið væri mitt á milli þess, að samhljóðandinn væri einfaldur eða tvöfaldur, en þó skal ávallt rita tvöfaldan samhljóðanda, þar sem uppruni er til, t. a. m. *blekkti, blekkt; byggði, byggt; hellti, hellt; kenndi, kennt* (af *blekkja, byggja, hella, kenna); blakks, hlekks, byggs, holls, svinns, skamms* (eig. eint. af *blakkur, hlekkur, bygg, hollur, svinnur, skammur)* o. s. frv.

10. gr.

Tillíking *(assimilatio)* verður í íslenzku á tvo vegu, þannig, að einhver samhljóðandi tillíkist eptirfarandi samhljóðanda, og stundum hinum undanfarandi; og eru þessar hinar helztu tillíkingar:

1. *ð* tillíkist eptirfarandi *t,* þegar meginhlutinn endar á *ð* og endingin er *t;* t. a. m. *hratt, brátt, mótt, prútt* (af *hrað-ur, bráð-ur, móð-ur, prúð-ur)* o. s. frv.

2. *dd* tillíkist eptirfarandi *t,* t. a. m. *statt, hrætt* (af *staddur, hræddur).*

3. *ð* tillíkist í fornri íslenzku stundum eptirfarandi *l,* enda þótt vjer nú sjaldan höldum þeirri tillíkingu, t. a. m. *gólla = góðla = góðlega; traulla = trauðla;* aptur segjum vjer þó nú ávallt *milli* og *millum,* fyrir *miðli* og *miðlum, frilla,* fyrir *friðla.*

4. *tt* tillíkist eptirfarandi *k* í *ekki* fyrir *eittki.*

5. *n* tillíkist opt eptirfarandi *k,* einkum þannig, að þar sem *nk* er í öðrum tungum, verður *kk* í íslenzku, t. a. m. *þakka* (á þýzku *danken); makki* (á dönsku *Manke).* Líkt er og því varið, er *ng* verður að *kk,* t. a. m. *hanga, hjekk; ganga, gekk; fá (= fanga), fjekk.*

6. *n* tillíkist eptirfarandi *d* í þálegri tíð ýmissa sagna og skipunarhætti, þannig að *nd* verður að *tt,* t. a. m. *binda, batt, bitt; hrinda, hratt,* o. s. frv. *n* tillíkist og *t* í *hitt, mitt, þitt, sitt* (af *hinn, minn, þinn, sinn),* og *nn* í *satt* (af *sannur).*

Á hinn bóginn tillíkist samhljóðandi hinum undanfarandi þannig:

1. *r* tillíkist undanfarandi *s,* en nú sleppum vjer þessu *s;* þannig t. a. m. *óss, yss, þyss,* fyrir *ósr, ysr, þysr,* nú *ós, ys, þys.*

2. *r* tillíkist undanfarandi *l* og *n* í öllum tveggja-atkvæða-orðum, og þeim eins-atkvæðis-orðum, þar sem breiður hljóðstafur er í meginhlutanum; þannig t. a. m.: *þumall, ketill, gjöfull,* fyrir *þumalr, ketilr, gjöfulr; aptann, drottinn, jötunn,* fyrir *aptanr, drottinr, jötunr.* *r* tillíkist og undanfarandi *n,* þótt hljóðstafur meginhlutans sje grannur í *hinn, minn, þinn, sinn, hann,* og í fornmáli stundum undanfarandi *l,* t. a. m. *vill* fyrir *vilr;* nú *vilt; stell* fyrir *stelr; kell* fyrir *kelr,* og er *kell* enn haft.

3. *d* tillíkist undanfarandi *n* í *finna* (fyrir *finda*), á gauzku *finþan,* á þýzku *finden;* sbr. *fundum, fundið; fundur.*

11. gr.

Hinar helztu stafabreytingar aðrar en tillíkingar þær, sem þegar hafa verið taldar, eru:

1. *g* breytist í *k* næst á eptir *t,* t. a. m. *almáttugur,* en *almáttkan almáttkum,* o. s. frv.

2. *nn* verður að *ð,* ef *r* fer næst á eptir. Þessi stafabreyting er mjög tíðkanleg fornmönnum, t. a. m. *muðr* f. *munnr, breðr* f. *brennr, teðr* f. *tennr, fiðr* f. *finnr, saðr* f. *sannr,* o. s. frv. Nú helzt þessi stafabreyting einungis í hinum samandregnu myndum af *annar* (*aðra, öðrum, öðru, aðrir, aðrar*); *maður f. mannur,* (þol. *mann,* o. s. frv.); *miður* f. *minnur* (af *minni*); *suður* f. *sunnur* (sbr. *sunnan,* og *sunnr,* fornt).

3. *m* verður að *f,* t. a. m. *safna* f. *samna* (af *saman*); *nafn* f. *namn* (sbr. lat. *nomen;* þýzk. *Name,* ensk. *name*).

12. gr.

Sumstaðar er það, að samhljóðanda er hleypt úr í miðju orðs, sumpart vegna þess, að samhljóðandinn verður eigi látinn heyrast, og sumpart hljóðfegurðar vegna.

1. *d* eða *ð* fellur ávallt í burtu, ef samhljóðandi fer næst á undan, og *t* á eptir, t. a. m. *vondur, vont; kenndur, kennt; harður, hart; særður, sært;* því að *dt* eða *ðt* verður eigi látið heyrast á eptir samhljóðanda.

2. *r* fellur í burtu í *annað* (áður *annat*) fyrir *annart,* og nokkrum öðrum orðum, t. a. m. *æska* (fyrir *ærska,* af *ór*).

3. *n* er sleppt úr á undan *ð* (áður *t*), í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni einkunna þeirra, sem hafa afleiðslu-endinguna *in,* og svo hluttekningarorða liðins tíma og sagnarbót þeirra sagna,

er beygjast eptir 3. og 4. beygingunni; t. a. m. *loðið* (áður *loðit*), *ærið* (áður *ærit*); *talið* (áður *talit*); *vikið* (áður *vikit*), o. s. frv., og sömuleiðis í greininum *hið* (áður *hit*). Á sama hátt fellur *l* burtu í *mikið, lítið* (af *mikil-l, lítil-l*). *n* er opt mjög óglöggt í framburði vorum á millum tveggja samhljóðenda, t. a. m. *bernska, gagns, vatns.*

13. gr.

Í enda orðs fellur endingar-*r* burtu:

1. í gjör. eint. karlkynsorða, þegar meginhluti orðsins endar á *linstaf, l, n,* og annar samhljóðandi fer næst á undan, t. a. m. *karl, vagn, hrafn.*

2. þegar meginhluti orðs endar á *s* og annar samhljóðandi fer á undan, eða á *ss,* eða *x,* t. a. m. *háls, hams, fors, sess, hvass, lax, vex.*

3. Nú sleppum vjer og endingar-*r* alstaðar, þegar meginhluti orðsins endar á *r* eða *s;* t. a. m. *hamar, jöfur, dyr, stór, fyr, ver, fer, sker; ys, þys, mýs, eys, frýs;* o. s. frv.

4. Endingar-*r* er opt sleppt, einkum í fornu máli, á eptir *n* eða *nn.* Nú á það sjer helzt stað í *son* og *vin,* og þó er líka sagt og ritað *sonur, vinur.* Auk þess rita og margir: *himin, aptan, morgun,* og þannig er og fram borið.

Athugasemd. Þar sem vjer nú höfum endinguna *ur,* þar var víðast í fornu máli endingin að eins *r,* t. a. m. *hestr, vetr, dalr, dómendr, tennr, merkr, ríkr, frægr, gefr, stelr, brennr,* o. s. frv., nema í gjör. og þol. fleirt. kvennkynsnafna þeirra, sem í gjör. eint. enda á *a,* t. a. m. *tungur, sögur.* Sömuleiðis höfðu fornmenn að eins *r,* þar sem vjer höfum nú *ur* í meginhluta flestra karlkynsorða og hvorugkynsorða, og eins einkunna, t. a. m. *akr, vetr, myrkr; fagr, fögr, vitr;* en *jöfurr, önnur, nokkur.*

# II. KAFLI.

## UM BEYGINGU ORÐA.

### 14. gr.

### Nöfn *(nomina substantiva)*.

*a.* Karlkennd nöfn.

Karlkynsnöfnum má skipta í fjóra flokka eptir beygingu sinni, og má taka hjer sem dæmi:

*floti*, *hestur*, *dalur*, *vinur*.

| | | 1. | 2. | 3. | 4. |
|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *floti*, | *hestur*, | *dalur*, | *vinur*. |
| | Þol. | *flota*, | *hest*, | *dal*, | *vin*. |
| | Þiggj. | *flota*, | *hesti*, | *dal(i)*, | *vini*. |
| | Eig. | *flota*, | *hests*, | *dals*, | *vinar*. |
| Fleirt. | Gjör. | *flotar*, | *hestar*, | *dalir*, | *vinir*. |
| | Þol. | *flota*, | *hesta*, | *dali*, | *vini*. |
| | Þiggj. | *flotum*, | *hestum*, | *dölum*, | *vinum*. |
| | Eig. | *flota*. | *hesta*. | *dala*. | *vina*. |

### 15. gr.

Eins og floti ganga öll karlkennd nöfn, sem í gjör. eint. enda á *i;* í hinum þremur föllum eint. enda þau á *a;* í fleirt. í gjör. á *ar*, í þol. og eig. á *a;* í þiggj. á *um*. Eins og floti beygjast og öll karlkennd hluttekningar-nöfn (*Participal-substantiva*) upp á *andi*, en ending þeirra er þó frá brugðin í gjör. og þol. fleirt. þar er hún nú *ur* (áður *r*), og með þeirri endingu fylgir það hljóðvarp, sem *i* veldur (sbr. I, 5); þannig t. a. m. eigandi, gjör. og þol. fleirt. *eigendur*, *búandi*, *búendur*, *bóndi*, *bændur;* o. s. frv. Þetta sama hljóðvarp helzt og í þiggj., t. a. m. *eigendum*, *búendum*, bændum, þar sem þó *a* ætti að breytast í *ö*, fyrst að *u* er og hefur ávallt verið í endingunni; en hjer virðist *e* og *ö* blandað saman upp á sama hátt og í ýmsum öðrum orðum, með því hljóð þessara tveggja stafa mun að fornu fari hafa verið líkara en nú, eins og t. a. m.

þegar sagt er *gjöra* (áður *göra*), og *gera, mjöl* og *mjel* o. s. frv. *fjandi* er eiginlega fyrir *fjáandi*, gjör. fleirt. er *fjendur*, en þiggj. *fjöndum*; þó finnst í hinni fornu tungunni gjör. *fjándr* (Ísl. s. II, 380). Í orðinu *frændi* (fyrir *frjáandi*) verður hljóðvarpið þegar í gjör. eint., og helzt í öllum föllum.

Í þeim orðum þessa flokks, þar sem meginhlutinn endar á *k* eða *g*, og samhljóðandi fer næst á undan, er *j* skotið inn í öllum föllum, nema gjör. eint., þ. e. alstaðar á undan *a* eða *u*, t. a. m. *illvirki, illvirkja; spillvirki, spillvirkja; höfðingi, höfðingja; heiðingi, heiðingja,* o. s. frv. Sömu reglu fylgir og *bryti, brytja.*

*herra* beygist og eins og *floti*, þótt gjör. eint. endist öðruvísi.

## 16. gr.

Einkenni þeirra nafna, sem beygjast eptir 2. beygingunni, er það, að eig. eint. endar á *s*, og gjör. fleirt. á *ar*, en ending gjör. eint. er hin sama og í 3. og 4. beygingunni, að hún er *ur* (áður *r*). Þiggjanda-endingin í eint. er *i* í öllum karlkyns nöfnum, nema þeim, sem í gjör. eint. enda á *i*, og þol. er ávallt endingarlaus, eða með öðrum orðum, þar kemur fram stofninn óaukinn. Í fleirt. eru fallendingarnar hinar sömu, sem í fyrstu beygingunni.

Eptir 2. beygingunni ganga öll karlkynsnöfn, þar sem gjöranda-endingin *r* (sem nú er víðast orðin *ur*) hefur tillíkst undanfarandi *l* eða *n*, hvort sem heldur eru eins-atkvæðis-orð með breiðum hljóðstaf í meginhlutanum, eða tveggja-atkvæða-orð (sbr. I, 10), og er þá sjálfsagt að hið síðara *l* eða *n* (fyrir *r*) fellur burtu í hinum föllunum, eins og t. a. m. *hóll* (fyrir *hólr*), þol. *hól*, þiggj. *hóli* eða *hól*, eig. *hóls*, o. s. frv.; *steinn* (fyrir *steinr*), þol. *stein*, þiggj. *steini*, eig. *steins*, o. s. frv.; *lykill* (fyrir *lykilr*), þol. *lykil*, þiggj. *lykli*, eig. *lykils*, o. s. frv.; *drottinn* (fyrir *drottinr*), þol. *drottin*, þiggj. *drottni*, eig. *drottins*, o. s. frv.

Eptir 2. beygingunni beygjast og þau karlkennd nöfn, þar sem meginhlutinn endar á *r*, *s*, eða *l* eða *n*, ef samhljóðandi fer næst á undan *l* eða *n*, (sbr. I, 13), t. a. m. *hamar* (áður *hamarr*), *ís* (áður *íss*), *karl, vagn, hrafn, akur* (áður *akr*) o. s. frv., þol. *hamar, ís, karl, vagn, hrafn, akur*, o. s. frv.

Í þiggj. eint. er opt sleppt endingunni *i* aptan af eins-

atkvæðis-orðum, þar sem hljóðstafurinn í meginhlutanum er breiður; þannig segjum vjer t. a. m. *uppi á háum hól* f. *hóli; hann snerist á hæl* f. *hæli; ís* f. *ísi,* o. s. frv.

Í eig. eint. eru nokkur orð óregluleg að því leyti, að þau endast þar bæði upp á *s* og *ar,* t. a. m. *auður, austur, eiður, seiður, vindur, tír* (= heiður), *skógur, lundur, róður, Ullur* (einn af ásum), eig. *auðs* og *auðar, austurs* og *austrar, eiðs* og *eiðar* (sjaldhaft), *seiðs* og *seiðar, vinds* (sjaldh.) og *vindar, tírs* og *tírar, skógs* (sjaldh.) og *skógar, lunds* (sjaldh.) og *lundar, róðurs* og *róðrar, Ulls* (sjaldh.) og *Ullar.* Sum endast ávallt á *ar,* t. a. m. *grautur, óður* (skáldskapur), *þróttur, mundur, drómundur, vísundur, höfundur, snúður* (hagur), og mannanöfnin: *Eyvindur, Guðmundur, Völundur, Önundur, Hallfreður, Hákon, Gissur, Össur;* eig. *grautar, óðar, þróttar, mundar, drómundar, vísundar, höfundar, snúðar*; *Eyvindar,* o. s. frv.

Þau orð, þar sem meginhlutinn endar á *s,* og annar samhljóðandi fer næst á undan, sleppa eiganda-endingunni *s,* svo að eig. verður þar eins og gjör. og þol. t. a. m. *kross, púss, þurs, háls, hams, lax.*

Fallendingarnar eru í fleirt. allar hinar sömu, sem í 1. beygingunni, og á þar engin óregla sjer stað.

Þau karlkennd nöfn, þar sem meginhlutinn er tvö atkvæði, dragast saman í þeim föllunum, þar sem endingin hefst á hljóðstaf, þ. e. í þiggj. eint. og allri fleirt., þannig að hljóðstafurinn fellur burtu í síðara atkvæði meginhlutans, eins og t. a. m. *hamar, hamri, hamrar,* o. s. frv.; *þöngull, þöngli, þönglar,* o. s. frv.; *þumall, þumli, þumlar,* o. s. frv.; *lykill, lykli, lyklar,* o. s. frv.; *aptann, aptni, aptnar,* o. s. frv.; *himinn, himni, himnar,* o. s. frv.; *morgunn, morgni, morgnar* o. s. frv.

Frá þessari reglu eru þó undantekin nokkur orð, þar sem þeir samhljóðendur standa saman í sömu samstöfu, að atkvæði þeirra annaðhvort lætur illa í eyrum, eða eigi er auðið að bera þá fram í einu, t. a. m. *Auðun, Össur, Gissur, Hákon, biskup,* þiggj. *Auðuni, Össuri, Gissuri, Hákoni, biskupi.* Þiggj. af *Reginn* er *Regin.*

Í þeim nöfnum, er meginhluti þeirra endar á *i,* fellur *i* burt í þeim föllum, þar sem endingin hefst á hljóðstaf, það er: í þiggj. eint. og öllum föllum fleirt.; þannig t. a. m.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *læknir,* | *hersir,* |
| | þol. | *lækni,* | *hersi,* |
| | þiggj. | *lækni,* | *hersi,* |
| | eig. | *læknis,* | *hersis,* |
| Fleirt. | Gjör. | *læknar,* | *hersar,* |
| | þol. | *lækna,* | *hersa,* |
| | þiggj. | *læknum,* | *hersum,* |
| | eig. | *lækna.* | *hersa.* |

Sbr. I, 6.

Orðið *eyrir* beygist og á sama hátt, en það er athugavert við það, að *au*, sem *ey* er hljóðvarp af, hefur ávallt haldizt í fleirt. (*aurar*, *aura*, *aurum*).

Orðið *skór* hefur nú í þiggj. eint. *skó*, gjör. fleirt. *skór*, þol. *skó*, eig. *skó*(*a*), og þiggj. *skóm*; áður var fleirt. gjör. *skúar*, þol. og eig. *skúa*, og þiggj. *skúum*.

Nokkur eru þau nöfn eptir þessari beygingu, þar sem *v* er skotið inn á undan þeim fallendingum, sem byrja á *a* eða *i*, þ. e. í þiggj. eint., og gjör., þol. og eig. fleirt., og hafa þau öll *ö* í meginhlutanum, enda heyrir *v* (eða *u*) stofninum til, t. a. m. *mör, mörvi, mörvar, mörva, mörvum; söngur, söngvi, söngvar.* Nú helzt *v* og í þiggj. fleirt. í þessum orðum. Þannig beygðist líka í forntungunni *hörr* og *börr* (= sonur).

Við beygingu þeirra nafna, sem beygjast eins og *hestur,* verður eigi annað hljóðvarp, en *a-ö,* í þiggj. fleirt., t. a. m. *akur, ökrum, hamar, hömrum,* o. s. frv. Óreglulegt er *dagur,* er þiggj. verður *degi,* þ. e. að þar verður hljóðvarp, er *i* fer með.

Í orðinu *ketill* kemur frumhljóðið *a* í fyrra atkvæðinu fram í hinum samandregnu myndum *(katli, katlar, katla),* en breytist í *ö* í þiggj. fleirt., þar sem *u* fer á eptir *(kötlum).* Á sama hátt beygðist og til forna *Egill* (þiggj. *Agli*). *Lykill* breyttist og til forna opt á sama hátt, að frumhljóðið, *u,* kom fram í hinum samandregnu myndum þess *(lukli, luklar, lukla, luklum).*

## 17. gr.

Beyging þeirra nafna, sem beygjast eins og *dalur,* er hin sama í eintölunni og þeirra, sem ganga eptir 2. beygingunni, en mismunurinn er í gjör. og þol. fleirt., því að þar sem þessi föll endast í 2. beygingunni á *ar* og *a,* þar endast þau í 3. beygingunni á *ir* og *i* (gjör. *dalir,* þol. *dali*). Í þeim orðum,

sem ganga eptir 3 beygingunni, er það alltíðast, að endingin *i* fellur burtu í þiggj. eint., svo að optast er: *í djúpum dal; á þessum bekk; í þessum brag,* o. s. frv. Sbr. það, sem sagt er hjer á undan um 2. beyginguna.

18. gr.

Einkenni fjórðu beygingarinnar er það, að eig. eint. endar á *ar,* og gjör. fleirt á *ir,* og þol. fleirt. því reglulega á *i.* Þau nöfn, sem upphaflega og eiginlega heyra þeirri beygingunni, eru þau, þar sem stofninn hefur endað á *u* (sbr. I, 4), en í þeim verður hljóðvarp, ef *a* hefur verið í meginhlutanum, og verður þá að *ö* í gjör. og þol. eint., t. a. m. *völlur,* af stofninum *vallu;* en auk þess beygjast eptir henni ýms orð, sem í raun rjettri ættu að beygjast eins og *dalur;* þannig beygjast t. a. m.:

| | | |
|---|---|---|
| *kviður;* | *sultur;* | *fundur;* |
| *gripur* (optar nú í eig. *grips*); | *skurður;* | *friður;* |
| *grunur;* | *skutur* (optar nú í eig. *skuts*); | *burður;* |
| *þurrður* (ekki haft í fleirt.); | *skriður;* | *bragur;* |
| *sauður;* | *staður;* | *mánnuður;* |

og svo þau nöfn, sem hafa afleiðslu-endinguna *-skapur,* t. a. m. *höfðingskapur; kunningskapur,* o. s. frv.

Mörg eru þau karlkennd nöfn, sem ýmist hafa *s* eða *ar* í eig. eint., og sem eiginlega ættu að ganga eptir þriðju beygingunni, t. a. m. *bekkur,* eig. *bekks* og *bekkjar; leggur,* eig. *leggs* og *leggjar*; *lækur,* eig. *læks* og *lækjar; vefur,* eig. *vefs* og *vefjar,* o. s. frv.; en þegar eig. endast á *ar,* þá er *j* skotið inn á undan endingunni, og sömuleiðis í þiggj. og eig. fleirt., t. a. m. *mergur, mergjar, mergjum, mergja; drykkur, drykkjar, drykkjum, drykkja;* o. s. frv., enda er það einkenni þessara orða, að þau hafa öll fengið hljóðvarp, og hefur *j* valdið því hljóðvarpi, og heyrir því upphaflega meginhlutanum til.

**Athugasemd.** Mörg þessara orða hafa nú að eins eina endingu í eig. eint.; þannig hafa *s* að eins:
*belgur; svelgur; drengur; kengur; sprengur; her; Freyr; þeyr; ylur; ymur; glymur; hlymur; dynur; stynur* (fornt); *styrkur; þytur; gnýr; skrækur,* og ganga því eins og *dalur* að endingunum til.

Í *bær* og *býr* er og *j* skotið inn á milli endingarinnar og meginhlutans í eig. eint., og þiggj. og eig. fleirt., enda heyrir

*j* þar og meginhlutanum (*bæjar, býjar, bæjum, býjum, bæja, býja*); en í þiggj. eint. er endingar-i sleppt burtu, til að forðast samkomu tveggja hljóðstafa.

Ending þol. er eiginlega og reglulega *i*, en þó er hún stundum *u*, þannig að báðar endingarnar má hafa jöfnum höndum, og fer þá hljóðvarpið eptir því, hvor endingin er höfð; þannig t. a. m. *velli* og *völlu; hætti* og *háttu; syni* og *sonu*, o. s. frv.

Í þessari beygingunni verða þessi hljóðvörp, 1) *a-ö, ja-jö*, þegar *u* fer á eptir, eða hefur farið upphaflega (sbr. I, 4), t. a. m. *völlur, völl, völlum* (stofninn *vall*); *fjörður, fjörð, fjörðum* (eig. eint. *fjarðar*). 2) *a-e, á-æ, o-y*, þegar *i* fer á eptir í endingunni, (þiggj. eint., gjör. og þol. fleirt.); *velli, vellir; háttur, hætti, hættir; sonur, syni, synir*. Hið þriðja atriði, sem athugavert er við hljóðbreytingarnar í 4. beygingunni, er það, að í þeim orðum, þar sem *ja* kemur fram í eig. eint. og eig. fleirt., er það klofningur úr *i*, sem kemur fram í þeim föllum, þar sem endingin hefst á *i* (þiggj. eint., gjör. og þol. fleirt.), enda er *i* í hinum upphaflega stofni þess konar orða, t. a m. *fjörður, skjöldur*, þiggj. eint. *firði, skildi;* eig. eint. *fjarðar, skjaldar*, o. s. frv.

Fyrir *sjór* og *snjór* eru líka til *sjár* og *snjár, sær* og *snær* og beygjast þau orð svona nú:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *snjór,* | *snjár,* | | *snær,* | |
| | þol. | *snjó,* | *snjá,* | | *snæ,* | |
| | þiggj. | *snjó,* | *snjá,* | | *snæ* og *snævi,* | |
| | eig. | *snjóar,* | *snjávar,* | | *snævar,* | |
| Fleirt. | gjör. | *snjóar,* | *snjávar,* | nú úrelt. | *snævar,* | nú úrelt. |
| | þol. | *snjóa,* | *snjáva,* | | *snæva,* | |
| | þiggj. | *snjóum,* | *snjávum,* | | *snævum,* | |
| | eig. | *snjóa.* | *snjáva.* | | *snæva.* | |

Á sama hátt beygist *sjór, sjár, sær*. Í báðum þessum orðum hefur *v* heyrt stofninum til, og ætti því að rjettu lagi að koma fram alstaðar, þar sem endingin hefst á hljóðstaf.

## 19. gr.

Orðið *maður* er óreglulegt að því, að það enga endingu hefur í gjör. og þol. fleirt., og verður þar *menn;* en endingin mun þó hafa verið *ir* og *i* í þessum föllum, og því mun hljóð-

varpið orðið; enda kemur sú ending fram, er greinirinn er skeyttur aptan við, er vjer segjum í gjör. fleirt. *mennirnir.*

*fingur* og *vetur* eru og endingarlaus í gjör. og þol. fleirt., og verður því eins og gjör. eint., en eig. eint. er *fingurs*, en *vetrar.*

*fótur* er í þiggj. eint. *fæti*, og í gjör. og þol. fleirt. *fætur* (áður *fætr*).

*Faðir* og *bróðir* beygjast svona:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *faðir,* | *bróðir,* |
| | þol., þiggj., eig. | *föður,* | *bróður,* |
| Fleirt. | gjör. þol. | *feður,* | *bræður,* |
| | þiggj. | *feðrum,* | *bræðrum,* |
| | eig. | *feðra,* | *bræðra.* |

þegar greinirinn er skeyttur aptan við *faðir*, verður eig. eint. *föðursins.*

Upp á sama hátt beygjast *móðir, dóttir* og *systir;* en þó verður að eins *t* (eigi *tt*) í fleirt. af *dóttir (dætur, dætrum, dætra).*

### *b.* Kvennkennd nöfn.

20. gr.

Kvennkenndum nöfnum má skipta í fimm flokka eptir fallendingum þeim, sem þau nú hafa fengið:

| | | 1. | 2. | 3. | 4. | 5. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *tunga,* | *hæð,* | *drottning,* | *veiði,* | *geit;* |
| | þol. | *tungu,* | *hæð,* | *drottning,* | *veiði,* | *geit;* |
| | þiggj. | *tungu,* | *hæð,* | *drottning,* | *veiði,* | *geit;* |
| | eig. | *tungu,* | *hæðar,* | *drottningar,* | *veiðar,* | *geitar;* |
| Fleirt. | gjör. | *tungur,* | *hæðir,* | *drottningar,* | *veiðar,* | *geitur;* |
| | þol. | *tungur,* | *hæðir,* | *drottningar,* | *veiðar,* | *geitur;* |
| | þiggj. | *tungum,* | *hæðum,* | *drottningum,* | *veiðum,* | *geitum;* |
| | eig. | *tungna.* | *hæða.* | *drottninga.* | *veiða.* | *geita.* |

21. gr.

Eins og tunga beygjast öll kvennkennd nöfn, sem í gjör. eint. enda á *a*, og er ending hinna fallanna í eint. *u;* gjör. og þol fleirt. endast á *ur*, þiggj. á *um*, og eig. fleirt. á *na*, (eins og hvorugkyns-orðin á *a*), þar sem ending allra annara nafna í íslenzku í eig. fleirt. er að eins *a*.

Í þeim kvennkenndum nöfnum, þar sem *j* fer næst á undan endingunni, fellur það *j* í burtu í eig. fleirt., með því endingin hefst þar á samhljóðanda, en það getur eigi staðið næst á undan samhljóðanda; þannig t. a. m. *rekkja,* eig. fleirt. *rekkna,* o. s. frv.

Í þeim nöfnum, þar sem meginhlutinn endar á linstaf (*l, m, n, r*), og nokkrum öðrum, verður endingin í eig. fleirt. að eins *a* (eigi *na*), fyrir hljóðfegurðar sakir, og verður eig. þannig eins og gjör. eint.; þannig t. a. m. *lilja, skemma, lína, ferja, gyðja, kvíga,* og í sumum getur *na* alls eigi átt sjer stað, þ. e. í þeim, þar sem meginhlutinn endar á *n,* og annar samhljóðandi fer næst á undan, t. a. m. *kanna, tinna, skepna,* o. s. frv.

*kona* er í því frá brugðið, að eig. fleirt. er *kvenna.*

Í fyrstu beygingunni verður eigi annað hljóðvarp, en *a-ö,* enda verður það í öllum föllunum, nema gjör. eint og eig. fleirt.; t. a. m. *saga;* þol., þiggj. og eig. eint. *sögu;* gjör. og þol. fleirt. *sögur,* þiggj. *sögum,* eig. *sagna.*

22. gr.

Eins og *hæð* beygjast flest þau orð, sem eigi hafa afleiðsluendinguna *ing* eða *i* (og beygjast því eins og *drottning* eða *veiði*), en nokkur beygjast eins og *geit* (eptir 5. beygingunni).

Við aðra beyginguna er það helzt aðgæzluvert, að sum orð endast í gjör. fleirt. á *ar,* í staðinn fyrir *ir,* og eru það leifar hinnar fornu beygingar, því að hún var *ar,* enda var 2. og 3. beygingin öll eins; þannig t. a. m.:

| | | |
|---|---|---|
| æð (áður *æðr*), *æðar;* | *laug, laugar;* | *rauf, raufar;* |
| *geit, geitar;* | *hlið, hliðar;* | *gimbur, gimbrar;* |
| *taug, taugar;* | *flaug, flaugar;* | *lend, lendar;* |
| *sin, sinar;* | *ól, ólar;* | *nál, nálar;* |
| *ár, árar;* | -»- *limar;* | *tág, tágar; skeið, skeiðar.* |

Í sumum þeim orðum, er endast á *ar* í gjör. fleirt., er *j* skotið inn á milli meginhlutans og endingarinnar, t. a. m. *il, iljar; ben, benjar; fit, fitjar; engjar; egg* (á hníf), *eggjar; klyf, klyfjar; menjar; refjar; ey, eyjar; (mær), meyjar.*

Í sumum er *ar* og *ir* haft jöfnum höndum sem ending gjör. fleirt., t. a. m. *grein, greinir* og *greinar; skál, skálir* og *skálar.*

Í sumum orðum er *v* skotið inn á undan endingunum *a* og

*ar,* enda heyrir *v* þar upphaflega stofninum til, og endast þau á *ar* í gjör. og þol. fleirt., t. a. m *ör, örvar*; *(stöð) stöðvar.*

Í þeim nöfnum eptir þessari beygingu, sem enda á breiðan hljóðstaf, dregst endingin saman við meginhlutann, þannig að granni hljóðstafurinn í endingunni fellur burtu, nú í gjör., þol. og þiggj. fleirt., og í eig. fleirt., ef greinirinn er skeyttur aptan við; en í fornmálinu líka í eig. eint. og fleirt., t. a. m. *skrá,* eig. eint. *skráar,* áður *skrár,* fleirt. *skrár, skrám, skráa,* áður *skrá (skránna);* sbr. I, 6.

Hið eina hljóðvarp, sem verður í 2. beygingunni, er *a-ö,* í gjör., þol. og þiggj. eint. og þiggj. fleirt. (sjá I, 4), því að gjör., þol. og þiggj. eint. hafa upphaflega endað á *u,* sem fallið hefur í burtu, en kemur þó fram í þol. og þiggj. eint. enn í nokkrum orðum, t. a. m. *jörðu, stundu, sólu,* o. s. frv.; í þeim föllunum, þar sem endingin hefst á *a* (eig. eint. og eig. fleirt.), kemur frumhljóðið fram aptur, og eins í gjör. og þol. fleirt., því að það *i,* sem þar er í endingunni, er síðar komið fyrir *a* og veldur því eigi hljóðvarpi; þannig t. a. m. *jörð, jarðar, jarðir,* o. s. frv.

Í flestum þeim kvennkynsnöfnum, sem áður höfðu afleiðsluendinguna *an,* hefur *a* breyzt í *u* í gjör., þol. og þiggj. eint., samkvæmt reglu þeirri, sem getið er um í I, 4, um að *a* verði að *u,* og í sumum þeirra helzt þetta *u* einnig í eig. eint., t. a. m. *skipun* (áður *skipan*), *skipunar*; fleirt. *skipanir, skipunum, skipana*; *viðvörun* (áður *viðvaran*), *viðvörunar*; fleirt. *viðvaranir, viðvörunum, viðvarana.*

*alin* er óreglulegt að því, að *a* verður að *á* í eig. eint. og í allri fleirtölu, og að það jafnframt dregst saman *(álnar, álnir, álnum, álna).*

**Athugasemd.** Sum eru þau nöfn, sem nú að minnsta kosti eru hvorugkyns í eint., en kvennkyns í fleirt., t. a. m. *klyf-ið* (hvorugkyns); fleirt. *klyfjar* (kvennkyns); *eng-ið* (áður *eng*), *engjar; lim-ið* (safn af greinum), *limar* (einstakar greinir).

### 23. gr.

Eins og *drottning* ganga öll þau kvennkennd nöfn, sem hafa afleiðsluendinguna *ing*; við þau orð er það eitt athugandi, að í þol. og þiggj. eint. er nú optar bætt við endingunni *u*

*(drottningu)*, og ávallt, ef greinirinn er skeyttur aptan við *(drottninguna, drottningunni)*.

24. gr.

Eins og *veiði* beygjast þau kvennkynsnöfn, sem í gjör. eint. endast á *i*; en sú ending var áður *r* *(veiðr, mýrr, heiðr*, nú *veiði, mýri, heiði*, o. s. frv.). Nokkur eru þau nöfn kvennkennd, sem endast á *i*, og hafa ávallt endazt á *i*, og eru óbeygjanleg; sjá síðar.

Í kvennmanna nöfnum hefur eldri endingin *r* haldizt í gjör. eint., en þó svo, að hún er orðin *ur*, eins og í öðrum orðum, en þau beygjast að öðru leyti sem *veiði*, t. a. m. *Ragnhildur*, þol. og þiggj. *Ragnhildi*, eig. *Ragnhildar*; þannig *Sigríður, Guðríður, Jófríður, Arnfríður, Ragnheiður*, o. s. frv. Í þeim kvennanöfnum, þar sem meginhlutinn endar á *nn*, er fallendingu gjör. sleppt, t. a. m. *Jórunn, Þórunn, Sæunn, Iðunn*. Hið eina nafn, auk kvennmannanafna, þar sem hin eldri endingin í gjör. eint. eigi hefur breytzt, er orðið *brúður*, og er það óreglulegt í gjör. og þol. fleirt., að endingin er þar *ir*, en eigi *ar (brúðir)*.

25. gr.

Eptir fimmtu beygingunni ganga að eins nokkur eins-atkvæðis-orð, og er það aðaleinkenni þeirrar beygingar, að ending gjör. og þol. fleirt. er nú *ur*; en *r* að eins í þeim orðum, þar sem meginhlutinn endar á breiðan hljóðstaf; í fornmálinu var endingin *r* í öllum þeim nöfnum, sem ganga eptir 5. beygingunni.

Að öðru leyti eru fallendingarnar hinar sömu, sem í 2. beygingunni. Þó eru þau sum nöfn eptir þessari beygingunni, þar sem ending eig. eint. er *ur* (áður *r*), eins og í gjör. og þol. fleirt., t. a. m. *vík*, eig. eint. *víkur* (áður *víkr*); *mjólk*, eig. *mjólkur*. Ýms af þeim nöfnum, sem í eig. eint. enda á *ur*, beygjast og eins og *hæð*, einkum í hinni nýrri tungunni, þannig að eig. eint. endar á *ar*, og gjör. og þol. fleirt. á *ir*; þannig beygjast t. a m. *mörk, stöng, spöng, röng, töng*; eig. eint. *merkur, stengur* og *stangar, spengur* og *spangar, rengur* og *rangar, tengur*-og *tangar*; gjör. og þol. fleirt. *merkur* og (sjaldnar) *markir, stengur* og *stangir, spengur* og *spangir, rengur* og

*rangir*, *tengur* og *tangir*, og eru þessi nöfn þó rjettar beygð eptir 5. beygingunni, en eptir hinni annari.

Þau orð, þar sem meginhlutinn endar á *r* eða *s*, sleppa nú endingunni *ur* í gjör. og þol. fleirt., sbr. I, 13; þannig t. a. m. *mús*, *lús*; gjör. og þol. fleirt. *mýs*, *lýs*. *dyr* er einungis haft í fleirt.

*hönd* er óreglulegt í þiggj. eint., þar sem það er *hendi*.

*nótt* eða *nátt* er óreglulegt að því leyti, að í eig. eint., og gjör. og þol. fleirt. fellur annað *t* burtu úr meginhlutanum, *nætur*. Kýr og ær er óreglulegt í gjör. eint., þar sem fallendingin er *r*, þar sem hún ætti engin að vera, og *ú* og *á* breytist í *ý* og æ, þar sem meginhlutinn er *kú* og *á*, eins og sjá má af þol. og þiggj.

Í fimmtu beygingunni verður hljóðvarp, 1) *a-ö*, í sömu föllum og í 2. beygingunni, þ. e. í gjör., þol. og þiggj. eint.; og svo í þiggj. fleirt., *önd* (stofninn *and*), *öndum; rönd* (stofninn *rand*), *röndum*. 2) Með endingunni *ur* (eða *r*) fylgir ávallt það hljóðvarp í meginhlutanum, sem *i* veldur, og bendir það hljóðvarp á, að hin upphaflega ending hafi verið *ir*; þannig verður *a-e, á-æ, o-e, ó-œ, u-y, ú-ý, önd* (stofnin *and*) *endur; tá, tær; hnot, hnetur; rót, rætur; brú, brýr. u-y* verður að eins í *dyr*, og helzt *y* nú í öllum föllunum, en áður beygðist það reglulega: *dyrr, dyrr, durum, dura.*

26. gr.

Ýms eru þau kvennkennd nöfn, sem í gjör. eint. enda á *i*, og eru óbeygjanleg með öllu, enda eru eigi höfð nema í eintölu. Flest þau orð tákna eiginlegleika eða tilfinningu (*abstracta*); þannig t. a. m. *mildi, rjettvísi, hlýðni, elli, æfi, gleði,* o. s. frv. Þegar þess konar orð eru skeytt framan við önnur orð, er opt skotið *s* inn á milli til hljóðfegurðar, t. a. m. *rjettvísisverk, skynsemis-orð,* o. s. frv., þó *kristniboð,* o. s. frv.

### *c.* Hvorugkyns nöfn.

27. gr.

Hvorugkynsnöfnum má skipta í þrjá flokka, og er beyging þeirra, sem nú skal greina:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *auga*, | *skip*, | *trje;* |
| | þol. | *auga*, | *skip*, | *trje;* |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| | þiggj. | *auga,* | *skipi,* | *trje;* |
| | eig. | *auga,* | *skips,* | *trjes;* |
| Fleirt. | gjör. | *augu,* | *skip,* | *trje;* |
| | þol. | *augu,* | *skip,* | *trje;* |
| | þiggj. | *augum,* | *skipum,* | *trjám;* |
| | eig. | *augna.* | *skipa.* | *trjáa.* |

28. gr.

Eins og *auga* beygjast öll önnur hvorugkyns-nöfn, sem enda á *a,* og eru þau: *hjarta, eyra, nýra, lunga, milta, eysta, bjúga, hnoða.* Við þessi orð er það einkennilegt, að endingin í eig. fleirt. er *na* (eins og kvennkynsnafnanna upp á *a*), þar sem hún er í öllum öðrum nöfnum að eins *a.* Með því hljóðstafur fallendinganna er að eins *a* eða *u,* getur eigi annað hljóðvarp orðið í þessum nöfnum, en *a-ö,* og því að eins í *hjarta* (fleirt. gjör. og þol. *hjörtu,* þiggj. *hjörtum).*

29. gr.

Eins og skip beygjast öll hvorugkyns-nöfn, sem í gjör. eint. eigi endast annaðhvort á *á* (sjá 1. beyginguna) eða *je* (sjá fjórðu beyginguna). Um þau hvorugkyns-nöfn, er enda á *i,* er þess gætandi, að þetta *i* fellur í burtu í flestum þeirra í þeim föllunum, þar sem endingin hefst á hljóðstaf (þiggj. eint., þiggj. og eig. fleirt.), t a. m. *kvæði;* þiggj. eint. *kvæði;* þiggj. fleirt. *kvæðum;* eig. fleirt. *kvæða.* Fari aptur á móti *k* eða *g* á undan *i,* breytist það í *j* á undan *a* og *u* (þiggj. og eig. fleirt.); t. a. m. *merki,* þiggj. fleirt. *merkjum,* eig. fleirt. *merkja. Altari* beygist í eint. sem *kvæði,* en í fleirt. eins og *auga (ölturu, ölturum, altara).* Áður var þetta orð karlkyns.

**Athugasemd.** Í mörgum af þeim hvorugkyns-nöfnum, sem leidd eru af sögnum og nú hafa afleiðslu-endinguna *sli,* var afleiðslu-endingin í forntungunni optast nær að eins *sl,* t. a. m. *rennsli,* áður *rennsl, beizli,* áður *beizl,* o. s. frv.

Ýms eru þau hvorugkynsnöfn, sem enda á samhljóðanda, að *j* er skotið inn á milli meginhlutans og endingarinnar í þiggj. og eig. fleirt., t. a. m. *kyn, pil, nes, skegg, sker, men, rif, sel;* þiggj. fleirt. *kynjum, piljum, nesjum, skeggjum, skerjum, menjum, rifjum, seljum;* eig. fleirt. *kynja, pilja, nesja, skeggja, skerja, menja, rifja, selja.*

Þau eru og nokkur orð, þar sem í forntungunni er *v* skotið inn í á undan hljóðstafs-endingu; hefur það *v* heyrt meginhlutanum til, enda hefur *a*, frumstafur meginhlutans, í þeim ávallt breytzt í *ö*, t. a. m. *högg, fjör, mjöl;* þiggj. eint. *höggvi, fjörvi, mjölvi.* Nú höfum vjer því nær aldrei þessar myndir, heldur *höggi, fjöri, mjöli;* nema í skáldskap og ýmsum fornum orðtækjum; t. a. m. *fje er fjörvi firr; fje* og *fjörvi.*

Flest tveggja-atkvæða-orð dragast saman í þeim föllunum, þar sem endingin hefst á hljóðstaf, (þiggj. eint., þiggj. og eig. fleirt.), svo að hljóðstafurinn úr síðara atkvæði meginhlutans hverfur, t. a. m. *sumar, sumri, sumrum, sumra; höfuð, höfði, höfðum, höfða; megin,* þiggj. eint. *megni,* o. s. frv.; *hjerað* dregst þó eigi saman *(hjeraði, hjeruðum, hjeraða).*

Í þessari beygingunni kemur fram að eins hljóðvarpið *a-ö* (í gjör., þol. og þiggj. fleirt.); sjá I, 4, og í síðara atkvæði tveggja-atkvæða-orða *a-u* (í sömu föllum); sjá I, 4, t. a. m. *land,* fleirt. *lönd, löndum; barn,* fleirt. *börn, börnum,* o. s. frv.; *hjerað,* fleirt. *hjeruð, hjeruðum; sumar, sumur.*

### 30. gr.

Að öllu leyti eins og *trje* beygist að eins *hnje, (knje). hlje* og *spje* eru að eins höfð í eint.; *fje* er haft bæði í eint. og fleirt., en er óreglulegt í eig. eint., er það er þar *fjár;* þó er myndin *fjes* til, en miklu óvanalegri. *vje* beygist reglulega eptir 2. beygingunni (þiggj. fleirt. *vjeum;* eig. fleirt. *vjea*). *tje* er að eins haft í orðatiltækinu: *að láta í tje.*

Endingin í þiggj. eint. er í þessum orðum eiginlega *i,* eins og í *skip,* en henni er ávallt sleppt í nýjari íslenzku, svo að þiggj. verður því eins og gjör.

### 31. gr.

## Um greininn *(Artikel).*

Greinirinn er *hinn, hin, hið;* er hann eins konar ábendingarfornafn, og er hafður til þess, nákvæmar að kveða á um það, sem um er verið að tala, svo að eigi verði á villzt og öðrum hlutum samkynja, og beygist, sem nú skal greint:

| | | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *hinn,* | *hin,* | *hið* (áður *hit*); |
| | þol. | *hinn,* | *hina,* | *hið* (áður *hit*); |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| | þiggj. | *hinum*, | *hinni*, | *hinu;* |
| | eig. | *hins*, | *hinnar*, | *hins;* |
| Fleirt. | gjör. | *hinir*, | *hinar*, | *hin;* |
| | þol. | *hina;* | *hinar*, | *hin;* |
| | þiggj. | *hinum*, | *hinum*, | *hinum;* |
| | eig. | *hinna*, | *hinna*, | *hinna.* |

Í fornmálinu var optar haft *inn*, *in*, *it*, og *enn*, *en*, *et*, o. s. frv. fyrir *hinn*, *hin*, *hit*.

þegar einkunn fylgir nafninu, er það komið undir tilfinningu og vilja þess, sem ritar, hvort greinirinn er hafður frálaus á undan einkunninni, eða hann er skeyttur aptan við nafnið. þannig má t. a. m. bæði segja: *hinn fljóti hestur*, og *fljóti hesturinn; hin gestrisna kona*, og *gestrisna konan; hið litla barn*, og *litla barnið*, o. s. frv. En sje engin einkunn með nafninu, þá verður ávallt að skeyta greininn aptan við nafnið, og verður þá sú breyting á honum, að *h* fellur alla-jafna burtu framan af honum, og endi nafnið á hljóðstaf fellur *i* í burtu líka, svo að eigi verður þá annað eptir, af stofni hans, en *n*. þannig t. a. m. *floti-nn, flota-nn, flota-num, flota-ns*, o. s. frv.; *hestur-inn, hest-inn, hesti-num, hests-ins*, o. s. frv.; *tunga-n, tungu-na, tungu-nni, tungu-nnar*, o. s. frv.; *skip-ið, skipi-nu, skips-ins*, o. s. frv.; *trje-ð, trje-nu, trjes-ins*, o. s. frv. Auk þess fellur *i* burtu úr meginhluta greinisins, þegar hann er skeyttur aptan við nöfn, í gjör. fleirt. í karlkyni og gjör. og þol. fleirt. í kvennkyni, enda þótt þessi föll endi á samhljóðanda, t. a. m. *flotar-nir, dalir-nir*, o. s. frv.; *tungur-nar, hæðir-nar, rætur-nar*, o. s. frv. þess er áður getið, að opt er sleppt *i*, endingu þiggj. eintölunnar, aptan af karlkyns-nöfnum, og er eins fyrir það sleppt *hi* framan af greininum í þessu falli; þannig t. a. m. *dal-num, hól-num, hæl-num* o. s. frv., fyrir *dalinum, hólinum, hælinum*. Eins er *bæ-num, snjó-num*, fyrir *bæ-inum, snjóinum*. Eins er *i* sleppt úr meginhluta greinisins með öðrum þeim föllum nafna, sem eiga að enda á hljóðstaf, þótt endingin sjálf falli burtu; þannig t. a. m. *ljá-nna*, f. *ljáa-nna, skó-nna* f. *skóa-nna, trjá-nna*, f. *trjáa-nna*.

**Athugasemd.** Fornmenn slepptu opt *i* úr meginhluta greinisins, er þeir skeyttu hann aptan við þol. eint. af kvennkyns-nöfnum; þannig t. a. m. *fjölna* fyrir *fjölina, kneskelna* fyrir *kneskelina* (Njál.), *förna* f. *förina, reiðna* f. *reiðina, rótna* f. *rótina* (Sn.-Ed.), o. s. frv.

Á hinn bóginn er í meginhluta greinisins *i* stundum haldið, þótt nafnið endi á hljóðstaf; á það sjer stað með hvorugkyns-nöfnum er enda á breiðan hljóðstaf; þannig t. a. m. *blý-ið, ský-ið, ský-in, hræ-ið, hræ-in*, o. s. frv. Á sama hátt hjeldu og fornmenn þráfaldlega *i* í greininum, er þeir skeyttu hann aptan við hvorugkyns-nöfn, er enda á *je (è)*, t. a. m. *trè-it, trè-in, knè-it, knè-in*, en nú er *i* ávallt sleppt við þess kyns orð. Eins helzt *i* í greininum, er hann er skeyttur aptan við þol. eint. karlkynsnafna þeirra, er meginhlutinn endar á breiðan hljóðstaf, t. a. m. *ljá-inn, bæ-inn, sjó-inn, snjó-inn*, o. s. frv.

Gjör. fleirt. af *maður* er *menn*, en með greininum verður það *mennirnir;* virðist þá í fljótu bragði, sem *r* sje skotið inn í greininn, enda höfðu fornmenn einatt *menninir;* en rjettar mun það álitið, að í þessari mynd nafnsins komi fram hin upphaflega mynd gjör. fleirt., *mennir*, því að endingin *ir* mun hafa valdið hljóðvarpinu *a-e*.

Á nafninu sjálfu verður alls engin breyting, þótt greinirinn sje skeyttur aptan við, nema að eins í þiggj. fleirt., þar verður sú breyting á, að *m* fellur aptan af endingunni, og með því nafnið þá endar á hljóðstaf *(u)*, fellur *i* burtu úr meginhluta greinisins. Þiggj. fleirt. t. a m. af *floti* er *flotum;* með greininum ætti það að vera *flotuminum;* en sökum þess, að tveir linstafir, *m* og *n*, standa svo nærri hvor öðrum, verður hljóðið næsta ófagurt. Auk þess fellur og opt *a* aptan af eig. fleirt. nafna eptir breiðan hljóðstaf, er greinirinn er skeyttur við, enda þótt því sje haldið, ef greinirinn fer ekki með, t. a. m. *trjánna* f. *trjáanna*; *skónna* fyrir *skóanna*, o. s. frv.

---

## Einkunnirnar.

### 32. gr.

Beyging einkunnanna er í raun rjettri ein, eða með öðrum orðum, allar einkunnir beygjast eins, með því að allar hafa þær hinar sömu beygingarendingar, en þær beygjast á tvennan hátt, eptir því, hvort greinirinn fer með eða ekki, og er sama beyging einkunnarinnar, hvort greinirinn stendur fyrir framan

einkunnina, eða hann er skeyttur aptan við nafnið. Þessar eru endingar einkunna.

| | | 1. án greinisins | | | 2. með greininum | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | karlkyn. | kvennk. | hvorugk. | karlk. | kvennk. | hvorugk. |
| Eint. | gjör. | *ur* (áður *r*) | » | *t* | *i* | *a* | *a* |
| | þol. | *an* | *a* | *t* | *a* | *u* | *a* |
| | þiggj. | *um* | *ri* | *u* | *a* | *u* | *a* |
| | eig. | *s* | *rar* | *s* | *a* | *u* | *a* |
| Fleirt. | gjör. | *ir* | *ar* | » | | *u* | |
| | þol. | *a* | *ar* | » | | *u* | |
| | þiggj. | | *um* | | | *u* | |
| | eig. | | *ra* | | | *u* | |

33. gr.

Til enn meiri skilnings-auka og hægðar má skipta einkunnunum, er greinirinn fer eigi með þeim, í þrjá flokka, með því nokkrar breytingar verða á meginhluta sumra einkunna sökum samdráttar, og á endingum sumra sökum tillíkingar; og set jeg hjer sem dæmi: *ríkur*, *mjór* og *flókinn*, og verður beyging þeirra sú, er nú skal greina.

1.

| | | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *ríkur*, | *rík*, | *ríkt*; |
| | þol. | *ríkan*, | *ríka*, | *ríkt*; |
| | þiggj. | *ríkum*, | *ríkri*, | *ríku*; |
| | eig. | *ríks*, | *ríkrar*, | *ríks*; |
| Fleirt. | gjör. | *ríkir*, | *ríkar*, | *rík*; |
| | þol. | *ríka*, | *ríkar*, | *rík*; |
| | þiggj. | | *ríkum*, | |
| | eig. | | *ríkra*. | |

2.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *mjór*, | *mjó*, | *mjótt*; |
| | þol. | *mjóan*, | *mjóa*, | *mjótt*; |
| | þiggj. | *mjóum*, | *mjórri*, | *mjóu*; |
| | eig. | *mjós*, | *mjórrar*, | *mjós*; |
| Fleirt. | gjör. | *mjóir*, | *mjóar*, | *mjó*; |
| | þol. | *mjóa*, | *mjóar*, | *mjó*; |
| | þiggj. | | *mjóum*; | |
| | eig. | | *mjórra*. | |

3.

| | | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *flókinn,* | *flókin,* | *flókið;* |
| | þol. | *flókinn,* | *flókna,* | *flókið;* |
| | þiggj. | *flóknum,* | *flókinni,* | *flóknu;* |
| | eig. | *flókins,* | *flókinnar,* | *flókins;* |
| Fleirt. | gjör. | *flóknir,* | *flóknar,* | *flókin;* |
| | þol. | *flókna,* | *flóknar,* | *flókin;* |
| | þiggj. | | *flóknum,* | |
| | eig. | | *flókinna.* | |

Eptir 1. beygingunni, eða eins og *ríkur,* beygist allur þorri einkunna í íslenzku, það er allar þær einkunnir, þar sem annaðhvort meginhlutinn eigi endar á breiðan hljóðstaf (2. beygingin), eða sem hafa afleiðslu-endinguna *in* (3. beygingin).

34. gr.

1. beygingin.

Í einkunnunum eptir 1. beygingunni kemur ekkert hljóðvarp fram við beyginguna, annað en það, sem *u* veldur, *a-ö,* og í síðara atkvæði ósamsettra tveggja-atkvæða-orða *a-u;* en það hljóðvarp verður eigi að eins í þeim föllum, þar sem endingin hefst á *u,* þiggj. eint. í karlkyni og hvorugkyni, og þiggj. fleirt. í öllum kynjum, heldur og í gjör. eint. í kvennkyni, og gjör. og þol. fleirt. í hvorugkyni; sbr. I, 4; t. a. m. *hraður, hröð, hröðum, hröðu,* o. s. frv.; *gamall, gömul, gömlum,* o. s. frv.

Í þeim föllum, þar sem endingin hefst á *r,* tillíkist þetta *r* undanfarandi *n* eða *l* í eins-atkvæðis-orðum, þegar breiður hljóðstafur fer á undan, og í öllum tveggja-atkvæða-orðum; sbr. I, 10, t. a. m. *vænn, vænni, vænnar, vænna; heill, heilli, heillar, heilla,* o. s. frv.; *stopull, stopulli, stopullar, stopulla,* o. s. frv.

*dd* eða *ð* tillíkist eptirfarandi *t* í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni, ef hljóðstafur fer næst á undan; sjá I, 10; en *d* eða *ð* fellur í burtu í þessum föllum, ef samhljóðandi fer næst á undan; sjá I, 12, t. a. m. *staddur, statt; hraður, hratt; vondur, vont; blindur, blint; harður, hart,* o. s. frv.

Ef meginhluti einkunnarinnar endar á *tt,* eða *t,* og samhljóðandi fer næst á undan, bætist ekkert *t* við í gjör. og þol. eint., eða þessi föll verða eins og meginhlutinn; t. a. m. *brattur, brött, bratt; sýktur, sýkt, sýkt,* (þess konar orð eru flest hlut-

tekningarorð liðins tíma); því að hvorki verða þrjú *t* *(ttt)* látin heyrast, nje heldur *tt* á eptir samhljóðanda.

Endingar-*r* er sleppt í gjör. eint. í karlkyni, þegar meginhlutinn endar á linstaf, og samhljóðandi fer næst á undan honum, og eins, ef meginhlutinn endar á *r* eða *s;* sjá I, 13.

Þær einkunnir, sem hafa *ö* í meginhluta orðsins í gjör. eint. í karlkyni, skjóta inn *v* á undan þeim endingum, sem hefjast á *a* eða *i,* t. a. m. *glöggur, glöggvan, glöggvir,* o. s. frv., *gamall, pögull,* og opt *vesall* og *heilagur* dragast saman í þeim föllunum, þar sem endingin hefst á hljóðstaf, t. a. m. *gamla, gömlum, gamlir,* o. s. frv.; *pögla, pöglum, pöglir,* o. s. frv.; *vesla, veslum, veslir,* o. s. frv.; *helga, helgum, helgir,* o. s. frv. Þær einkunnir, sem hafa afleiðslu-endinguna *ugur* (áður *igr*) má og draga saman á sama hátt og *gamall,* t. a. m. *(auðugur) auðgan, auðga, auðgum, auðgir, auðgar; (máttugur), máttkan, máttka, máttkum,* o. s. frv. (*g* breytist þá í *k;* sökum *tjes,* sem á undan fer).

*Sannur* hefur í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni *satt,* og má þá svo á líta, sem *nn* hafi tillíkzt eptirfarandi *t,* eða líka, að *satt* sje leifar af fornmyndinni *saðr,* þannig, að *ð* hafi tillíkzt eptirfarandi *t,* samkvæmt reglunum fyrir tillíkingunum.

Eptir 1. beygingunni ganga öll hlutekningarorð lið. tíma, sem í gjör. eint. í karlkyni endast á *ur* (1. og 2. beyg.).

### 35. gr.
### 2. beygingin.

Eins og *mjór* beygjast allar þær einkunnir, þar sem meginhlutinn (gjör. eint. í kvennkyni) endar á breiðan hljóðstaf, *á,* æ, *ó, ý,* og er beyging þeirra að eins frá brugðin hinni fyrstu beygingunni í því, að *t* í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni tvöfaldast, verður *tt,* og sömuleiðis endingar-*r* í þiggj. og eig. eint. í kvennkyni, og eig. fleirt. í öllum kynjum; t. a. m. *grátt; grárri, grárrar, grárra; auðsætt; auðsærri, auðsærrar, auðsærra; nýtt; nýrri, nýrrar, nýrra,* o. s. frv. Í þeim einkunnum, þar sem meginhlutinn endar á æ eða *ý,* er *j* skotið inn á undan þeim endingum, sem byrja á *a* eða *u;* t. a. m. *auðsæjan, auðsæjum, nýjan, nýjum,* o. s. frv. Í sumum er skotið inn *v* (eða *f*) á millum meginhlutans og endingarinnar, helzt í forntungunni, t. a. m. *hávan, mjóvir, frjóvum,* o. s. frv.

**Athugasemd.** Upphaflega var *r* eigi tvöfaldað í endingum þessara einkunna, og finnast þess mörg dœmi í forntungu vorri, að ritað er t. a. m. *blári*, fyrir *blárri*, *grárar*, fyrir *grárrar*, o. s. frv.

36. gr.

3. beygingin.

Eins og *flókinn* beygjast allar þær einkunnir, sem hafa afleiðslu-endinguna *in* (í gjör. eint. í karlkyni *inn*); eru reyndar fallendingar þeirra einkunna allar hinar sömu sem í 1. beygingunni; en um þessar ber þó þess að geta:

1) Að samkvæmt reglunum fyrir tillíkingunni, tillíkist *r* í byrjun endingarinnar (í gjör. eint. í karlkyni; þiggj. og eig. eint. í kvennkyni, og í eig. fleirt. í öllum kynjum) undanfarandi *n;* þannig t. a. m. *loðinn* fyrir *loðinr, loðinni* fyrir *loðinri, loðinnar* fyrir *loðinrar, loðinna* fyrir *loðinra.* 2) Í öllum þeim föllum, þar sem endingin hefst á hljóðstaf, eru einkunnir þessar dregnar saman, þannig, að hljóðstafnum úr síðara atkvæði meginhlutans er hleypt úr, nema í þol. eint. í karlkyni, þar er hljóðstafnum sleppt úr endingunni, svo að hún verður *n* að eins, eigi *an;* þannig verður þá t. a. m. *loðinn* fyrir *loðinan, loðna, loðnir, loðnum* fyrir *loðina, loðinir, loðinum*, o. s. frv. 3) Í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni er *n* fellt aptan af meginhlutanum á undan *ð* (áður *t*); sjá I, 12; t. a. m. *flókið* fyrir *flókint*, o. s. frv.; *mikill* og *lítill* beygjast að öllu leyti eins og *flókinn*, bæði að tillíkingunni, samdrættinum og úrfellingu síðasta samhljóðandans úr stofninum í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni *(mikið, lítið);* en þol. eint. í karlkyni er *mikinn, lítinn* (fyrir *mikiln, lítiln,* samandregið fyrir *mikilan, lítilan);* og fellur því eigi að eins *a* burtu úr endingunni heldur tillíkist og *l* eptirfarandi *n.* Auk þess er það um *lítill,* að *í* greinist og verður að *i* í öllum hinum samandregnu myndunum, eða þar, sem endingin hefst á hljóðstaf; virðist því sem hinir 2 samhljóðendur, sem á eptir fara, valdi þessu *(positio),* enda á það sjer stað í ýmsum orðum í íslenzku (t. a. m. *minn, þinn, sinn;* sbr. *mín, þín, sín; gott* af *góður*).

Ýmsar eru þær einkunnir og hlutekningar orð liðins tíma, sem endast á *in,* að þau breyta *n* (síðasta staf meginhlutans) í *t* í þeim föllum, þar sem endingin hefst á hljóðstaf, og orðin því dragast saman; eru það helzt þess konar orð, þar sem rótin

á undan afleiðslu-endingunni endar á *k*, eða einhvern linstaf *(l, r, n, m)*; enda hafa þau sum tvöfalda mynd í gjör. eint. í karlkyni, bæði upp á *inn* og *dur* eða *tur (dr* eða *tr)*; þannig beygist t. a. m. *nakinn:*

| | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. | | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | | | | Fleirt. | | | |
| gjör. | *nakinn,* | *nakin,* | *nakið.* | gjör. | *naktir,* | *naktar,* | *nakin.* |
| þol. | *nakinn,* | *nakta,* | *nakið.* | þol. | *nakta,* | *naktar,* | *nakin.* |
| þiggj. | *nöktum,* | *nakinni,* | *nöktu.* | þiggj. | | *nöktum.* | |
| eig. | *nakins,* | *nakinnar,* | *nakins.* | eig. | | *nakinna.* | |

Einkunnin *eiginn* er beygð í fornu máli reglulega sem *flókinn.*

| | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. | | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | | | | Fleirt. | | | |
| gjör. | *eiginn,* | *eigin,* | *eigið.* | gjör. | *eignir,* | *eignar,* | *eigin.* |
| þol. | *eiginn,* | *eigna,* | *eigið.* | þol. | *eigna,* | *eignar,* | *eigin.* |
| þiggj. | *eignum,* | *eiginni,* | *eignu.* | þiggj. | | *eignum.* | |
| eig. | *eigins,* | *eiginnar,* | *eigins.* | eig. | | *eiginna.* | |

Nú er þetta orð að mestu haft óbeygjanlegt *eigin*, nema hvað gjör. og þol. eint. í karlkyni er *eiginn*, og gjör. og þol. eint. í hvorugkyni *eigið.*

## 37. gr.

Ýmsar eru þær einkunnir, sem eru nú óbeygjanlegar með öllu, og endast í öllum föllum á *a*, t. a. m. *draumstola, einmana, dauðvona, einskipa,* o. s. frv. Í hinni fornu tungunni voru þessi orð og óbeygjanleg að öðru leyti, en því, að þau í gjör. eint. í karlkyni enduðust á *i*, í staðinn fyrir *a*, t. a. m. *einmani, frumvaxti, fulltíði,* o. s. frv.

Eins og *flókinn* beygjast hluttekningarorð liðins tíma upp á *inn* af 3. og 4. beygingu sagnanna.

## 38. gr.

Ef greinirinn fer með einkunninni, hvort heldur hann stendur fyrir framan einkunnina, eða honum er hnýtt aptan við nafnið, fær einkunnin allt aðra beygingu, heldur en ef enginn greinir fer með, eins og sjá má hjer á undan; enda dragast þá saman þær einkunnir, sem annars geta dregizt saman, með

því endingin ávallt er einungis hljóðstafur, *a, i,* eða *u;* og skal setja hjer eitt dœmi til skilningsauka.

| | | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. | |
|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *hinn ríki,* | *hin ríka,* | *hið ríka;* | Fleirt. í öllum föllum og kynjum *ríku.* |
| | þol. | *hinn ríka,* | *hina ríku,* | *hið ríka;* | |
| | þiggj. | *hinum ríka,* | *hinni ríku,* | *hinu ríka;* | |
| | eig. | *hins ríka,* | *hinnar ríku,* | *hins ríka.* | |

## 39. gr.

## Stigbreyting *(comparatio).*

Miðstig *(gradus comparativus)* einkunna myndast af meginhluta frumstigs, optast með því móti, að við er bœtt í karlkyni og kvennkyni *ari*, og í hvorugkyni *ara*, og stundum er endingin einungis *ri*, *ra;* en efsta stig *(gradus superlativus)* er myndað þannig, að við er bætt *astur*, *ust*, *ast*, eða einungis *stur, st, st.* Hinar styttri endingarnar, *ri*, *ra; stur*, *st*, heyra eiginlega 2. flokknum til, eða þeim einkunnum, þar sem meginhlutinn endar á fláan hljóðstaf og er þá *a* hleypt úr, til þess að tveir hljóðstafir eigi standi saman; sbr. I, 6. En í þessum einkunnum tvöfaldast *r* í miðstigsendingunni ávallt í hinni nýrri tungunni, og verður hún því *rri*, t. a. m. *flárri* af *flá*, *mjórri* af *mjó*, o. s. frv. Auk þess fá sumar þessara einkunna (þeirra, sem beygjast eptir annari beygingunni) hljóðvarp það, sem *i* veldur, bæði í miðstigi og efsta stigi, en þó eigi allar, t. a. m. *hár*, *hærri, hæstur; fár*, *færri*, *fæstur.* Af einkunnum þeim, sem heyra til 1. flokknum, myndast miðstigið reglulega með endingunni *ari, ara,* og efsta stig með *astur*, *ust, ast.* Þær einkunnir af þessum flokknum, er hafa hinar styttri stigbreytingar-endingar í miðstiginu, eru 1) eins-atkvæðis-orð, þar sem meginhlutinn endar á *l* eða *n* og breiður hljóðstafur er í meginhlutanum, og 2) öll tveggja-atkvæða-orð, þar sem meginhlutinn endar á *l,* en í hvorumtveggja þessara einkunna tillíkist *r* í miðstigsendingunni hinu undanfarandi *l* eða *n.* Í efsta stigi þessara einkunna helzt aptur á móti sem optast hin lengri endingin, t. a. m. *sæll, sælli, sælastur*; *hreinn, hreinni, hreinastur*; *gjöfull, gjöfulli, gjöfulastur* (líka *gjöflari*, *gjöflastur*).

3) Í þeim einkunnum, sem hafa afleiðslu-endinguna *legur* (áður *ligr*) verður miðstigsendingin að eins *ri*, *ra;* en efsta stig þeirra myndast venjulegast með *astur*, *ust*, *ast;* t. a. m. *væn-*

*legur, vænlegri, vænlegastur*; *efnilegur, efnilegri*, *efnilegastur*, o. s. frv. Í þeim einkunnum, sem hafa afleiðslu-endinguna *ugur* (áður *igr*), má opt hafa hina styttri endingu, bæði í miðstigi og efsta stigi, og er í mörgum þeirra hin styttri endingin venjulegri í miðstigi, en hin lengri í efsta stigi; t. a. m. *máttugur, máttugri* og *máttkari*, *máttugastur* og *máttkastur*; *hentugur, hentugri, hentugastur*.

4) Í ýmsum einstökum orðum, sem ekki verða talin undir neinn tiltekinn flokk, myndast enn miðstig með *ri*, og efsta stig með *stur, st*, og verður í meginhluta þeirra allra það hljóðvarp, sem *i* annars veldur, ef það annars getur átt sjer stað, þannig t. a. m.:

| | | |
|---|---|---|
| *ungur,* | *yngri,* | *yngstur;* |
| *þungur,* | *þyngri,* | *þyngstur;* |
| *þunnur,* | *þynnri,* | *þynnstur;* |
| *þröngur,* | *þrengri,* | *þrengstur*; |
| *stór,* | *stærri,* | *stærstur;* |
| *stuttur,* | *styttri,* | *stytztur;* |
| *langur,* | *lengri,* | *lengstur*; |
| *lágur,* | *lægri,* | *lægstur*; |
| *fagur,* | *fegri,* | *fegurstur;* |
| *fullur,* | *fyllri,* | *fyllstur.* |

Miðstig og efsta stig sumra einkunna myndast og á tvöfaldan hátt, í sumum annað, og í sumum bæði stigin, t. a. m.:

| | | |
|---|---|---|
| *djúpur,* | *djúpari* og *dýpri,* | *djúpastur* og *dýpstur*; |
| *magur,* | *magrari* og *megri,* | *magrastur* og *megurstur*; |
| *dýr,* | *dýrari* og *dýrri,* | *dýrastur* og *dýrstur* (nú sjaldan)[1]; |
| *skýr,* | *skýrari* og *skýrri,* | *skýrastur* og *skýrstur*[1]; |
| *spakur,* | *spakari* og *spekri,* | *spakastur;* |
| *framur,* | *framari* og *fremri,* | *framastur* og *fremstur*[2]. |

Athugasemd. Fornmenn höfðu þar opt hinar styttri endingarnar í miðstigi og efsta stigi einkunna, er vjer nú höfum hinar lengri, og á hinn bóginn höfðu þeir opt hinar lengri, er vjer nú höfum hinar styttri;

1) *Skatna skýrstr*
*Skúli dýrstr.* Háttatal Snorra Sturlusonar, 82. er.

2) *Fremri* og *fremstur* er haft í annari merkingu, en *framari* og *framastur*, og þýðir sá, sem er fyrir framan annan eða undan öðrum, og sá, sem tekur öðrum fram.

þannig er t. a. m. *torsveigstr*, Korm. I. kap.; *ágæztr*, Ísl. s. I, bls. 376 og víðar, Kmh. 1813. *skyldra*, Njála, bls. 182, Kmh. 1772; en *fullari*, Ísl. II, bls. 380; Kmh. 1847, o. s. frv.

## 40. gr.

Nokkrar eru þær einkunnir, þar sem miðstig og efsta stig eru mynduð af allt öðrum stofni, en frumstigið, og eru þessar hinar helztu:

| Frumstig. | Miðstig. | Efsta stig. |
|---|---|---|
| *góður*, | *betri*, | *beztur*. |
| *illur*, } *vondur*, } | *verri*, | *verstur*. |
| *margur*, | *fleiri*, | *flestur*. |
| *mikill*, | *meiri*, | *mestur*. |
| *lítill*, | *minni*, | *minnstur*. |
| *gamall*, | *eldri*, | *elztur*. |

Ýmsar eru þær einkunnir, sem ekkert frumstig hafa, og er þá miðstigið og efsta stigið myndað af nafni eða atviksorði. Þannig eru t. a. m.:

| Miðstig. | Efsta stig. |
|---|---|
| *nyrðri*, | *nyrztur*, af *norður* (sem frumstig er haft *norðlægur*). |
| *eystri*, | *austastur*, af *austur* (sem frumstig *austlægur*). |
| *syðri*, | *syðstur*, af *suður* (sem frumstig er haft *suðlægur*). |
| *vestari* og *vestri*, | *vestastur*, af *vestur* (sem frumstig er haft *vestlægur*). |
| *aptari* og *eptri*, | *aptastur*, af *aptur*. |
| *ytri*, | *yztur*, af *út*. |
| *innri*, | *innstur*, af *inni*. |
| *efri*, | *efstur*, af *of* (fornt orð). |
| *neðri*, | *neðstur*, af *niðri*. |
| *æðri*, | *æðstur*. |
| *síðari* og *síðri*, | *síðastur*[1] og *síztur*, af *síð*. |
| *fyrri*, | *fyrstur*, af *for* (= *fyrir*). |
| *heldri*, | *helztur*, af *heldur*. |
| *sjaldnari*, | *sjaldnastur*, af *sjaldan*. |
| *firri*, | *firrstur*, af *fjarri* = *fjærri*. |
| — | *næstur*, af *ná* í *náinn*, *nálægur*, o. s. frv. |

1) *Síðari* og *síðastur* er = sá, sem er á eptir öðrum, en *síðri* og *síztur* = sá, sem stendur á baki öðrum í einhverju, er minni maður en aðrir.

### 41. gr.

Í miðstiginu verður engin hljóðbreyting við beyginguna, en í efsta stigi verður það hljóðvarp, sem *u* veldur, í þeim föllum, þar sem endingin byrjar á *a*, þ. e. *a-ö* í fyrsta atkvæðinu, en *a-u* í hinu síðasta; nema því að eins, að orðið sje samskeytt; því að aldrei verður hljóðvarp í fyrri hluta samskeyttra orða sökum beygingar-endinganna.

### 42. gr.

Beygingar-endingarnar í miðstigi einkunna eru að fornu fari þær, er nú skal greina; og eru þær hinar sömu, hvort sem greinirinn fer með eða ekki.

| | | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | Gjör. | *ari,* | *ari,* | *ara.* |
| | þol. þiggj. eig. | *ara,* | *ari,* | *ara.* |
| Fleirt. | í öllum föllum | *ari,* | *ari,* | *ari.* |

Nú látum vjer öll föllin í eintölu í karlkyni endast á *ari.*

Efsta stigið beygist að fallendingunum til að öllu leyti eins og frumstigið, hvort sem greinirinn fer með eða ekki. Þannig beygist þá t. a. m. miðstig og efsta stig af *ríkur:*

#### Miðstig.

| | | Karlkyn. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *ríkari,* | *ríkari,* | *ríkara.* |
| | þol., þiggj., eig. | *ríkara* (nú *ríkari*), | *ríkari,* | *ríkara.* |
| Fleirt. | í öllum föllum | *ríkari,* | *ríkari,* | *ríkari.* |

#### Efsta stig.

*a)* án greinis.

| | | Karlkyn. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *ríkastur,* | *ríkust,* | *ríkast;* |
| | þol. | *ríkastan,* | *ríkasta,* | *ríkast;* |
| | þiggj. | *ríkustum,* | *ríkastri,* | *ríkustu;* |
| | eig. | *ríkasts* (sjaldh.), | *ríkastrar,* | *ríkasts* (sjaldh.); |
| Fleirt. | gjör. | *ríkastir,* | *ríkastar,* | *ríkust;* |
| | þol. | *ríkasta,* | *ríkastar,* | *ríkust;* |
| | þiggj. | | *ríkustum;* | |
| | eig. | | *ríkastra.* | |

*b)* með greininum.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *hinn ríkasti,* | *hin ríkasta,* | *hið ríkasta;* |
| | þol. | *hinn ríkasta,* | *hina ríkustu,* | *hið ríkasta;* |
| | þiggj. | *hinum ríkasta,* | *hinni ríkustu,* | *hinu ríkasta;* |
| | eig. | *hins ríkasta,* | *hinnar ríkustu,* | *hins ríkasta.* |

Fleirt. í öllum föllum og kynjum: *ríkustu.*

---

## Fornöfnin *(Pronomina).*

### 43. gr.

### Persónuleg fornöfn *(Pronomina personalia).*

| | | 1. persóna. | 2. persóna. | 3. persóna. Karlk. | Kvennk. |
|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *jeg* (áður *ek*); | *þú;* | *hann,* | *hún,* |
| | þol. | *mig* (áður *mik*); | *þig* (áður *þik*); | *hann,* | *hana,* |
| | þiggj. | *mjer;* | *þjer;* | *honum,* | *henni,* |
| | eig. | *mín;* | *þín;* | *hans,* | *hennar.* |
| Tvít. | gjör. | *við* (áður *vit*); | *þið* (áður *þit*); | | |
| | þol. | *okkur;* | *ykkur;* | | |
| | þiggj. | *okkur;* | *ykkur;* | | |
| | eig. | *okkar;* | *ykkar;* | | |
| Fleirt. | gjör. | *vjer;* | *þjer;* | | |
| | þol. | *oss;* | *yður;* | | |
| | þiggj. | *oss;* | *yður;* | | |
| | eig. | *vor.* | *yðar.* | | |

Eins og sjá má af þessum beygingum, er það einkennilegt við hin persónulegu fornöfn, að í 1. og 2. persónu er gjörður munur á, hvort talað er um tvo að eins, eða fleiri, og hafa þau því 3 tölur, eintölu, tvítölu *(dualis)* og fleirtölu. þessa munar á tvítölu og fleirtölu gætum vjer eigi nú á dögum í daglegu tali, heldur höfum vjer optast tvítölumyndirnar, hvort sem talað er um tvo eða fleiri, en fornmenn gættu þessa munar vandlega.

Fyrir hvorugkyn þriðju persónunnar í eintölu, og fleirtölu í öllum kynjum er haft hvorugkynið og fleirtalan af ábendingarfornafninu *sá, sú* (sjá það orð).

### 44. gr.

**Apturbeygjanlegt fornafn** (*Pronomen reflexivum*).

Hið apturbeygjanlega fornafn í íslenzku er:

þol. *sig* (áður *sik*);
þiggj. *sjer;*
eig. *sín;*

og eru hinar sömu myndir hafðar, hvort sem talað er um einn eða fleiri.

### 45. gr.

**Eignarfornöfn** (*Pronomina possessiva*).

Eignarfornöfnin eru mynduð af eigendum hinna persónulegu fornafna, 1. og 2. persónunni, þrjú af hverju, og hið sjöunda af eiganda hins apturbeygjanlega fornafns. Þau eru þessi:

| | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|
| Af 1. persónu: | *minn,* | *mín,* | *mitt;* |
| | *okkar,* | *okkur,* | *okkart;* |
| | *vor,* | *vor,* | *vort;* |
| Af 2. persónu: | *þinn,* | *þín,* | *þitt;* |
| | *ykkar,* | *ykkur,* | *ykkart;* |
| | *yðvar,* | *yður,* | *yðvart;* |
| Af hinu apturbeygjanlega fornafni: | *sinn,* | *sín,* | *sitt.* |

*minn, þinn, sinn,* beygjast eins og greinirinn, en þó svo, að gjör. og þol. eint. í hvorugkyni verður *mitt, þitt, sitt*; það er með öðrum orðum, *n* í meginhlutanum tillíkist endingar-*t.* Annað er það athugavert við þessi fornöfn, að *i* verður að *í* í öllum þeim föllum, þar sem annaðhvort fallendingin er engin (gjör. eint. í kvennkyni; gjör. og þol. fleirt. í hvorugkyni) eða *s* (eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni), eða hún hefst á hljóðstaf. Í þol. eint. í karlkyni fellur *a* burtu úr endingunni, og verður þol. því eins og gjör. Þannig t. a. m.:

| | Eint. Karlk. | Eint. Kvennk. | Eint. Hvorugk. | Fleirt. Karlk. | Fleirt. Kvennk. | Fleirt. Hvorugk. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| gjör. | *minn,* | *mín,* | *mitt;* | *mínir,* | *mínar,* | *mín;* |
| þol. | *minn,* | *mína,* | *mitt;* | *mína,* | *mínar,* | *mín;* |
| þiggj. | *mínum,* | *minni,* | *mínu;* | | *mínum;* | |
| eig. | *míns,* | *minnar,* | *míns.* | | *minna.* | |

*okkar*, *ykkar* og *yðvar* eru nú lítt tíðkuð bæði í tali og riti, og þó eigi úrelt; en í stað þeirra eru optast hafðir eigendur hinna persónulegu fornafna, *okkar, ykkar, yðar.* Þau beygjast svona:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *okkar,* | *okkur,* | *okkart;* |
| | þol. | *okkarn,* | *okkra,* | *okkart;* |
| | þiggj. | *okkrum,* | *okkarri,* | *okkru;* |
| | eig. | *okkars,* | *okkarrar,* | *okkars;* |
| Fleirt. | gjör. | *okkrir,* | *okkrar,* | *okkur;* |
| | þol. | *okkra,* | *okkrar,* | *okkur;* |
| | þiggj. | | *okkrum;* | |
| | eig. | | *okkarra.* | |

Á sama hátt beygjast *ykkar* og *yðvar,* og fellur *v* í *yðvar* burtu, eins og sjálfsagt er, í öllum hinum samandregnu myndunum, og þar sem *a* í síðara atkvæðinu breytist í *u* (gjör. eint. í kvennkyni, og gjör. og þol. fleirt. í hvorugkyni). *vor* beygist að öllu leyti reglulega eins og *ríkur,* nema að þol. eint. í karlkyni er *vorn* (fyrir *voran*).

## 46. gr.

### Ábendingarfornöfn (*Pronomina demonstrativa*).

Ábendingarfornöfnin eru í íslenzku *sá*, *sú*, *það; þessi, þessi, þetta; hinn, hin, hitt.*

*hinn* beygist að öllu leyti eins og greinirinn, nema að gjör. og þol. eint. í hvorugkyni er *hitt,* þar sem það í greininum er *hið* (áður *hit*). *sá* og *þessi* beygjast sem nú skal greina:

| | | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *sá,* | *sú,* | *það* (áður *þat*); |
| | þol. | *þann,* | *þá,* | *það* (áður *þat*); |
| | þiggj. | *þeim,* | *þeirri,* | *því;* |
| | eig. | *þess,* | *þeirrar,* | *þess;* |
| Fleirt. | gjör. | *þeir,* | *þær,* | *þau;* |
| | þol. | *þá,* | *þær,* | *þau;* |
| | þiggj. | | *þeim;* | |
| | eig. | | *þeirra;* | |
| Eint. | gjör. | *þessi,* | *þessi,* | *þetta;* |
| | þol. | *þennan,* | *þessa,* | *þetta;* |
| | þiggj. | *þessum,* | *þessari,* | *þessu;* |
| | eig. | *þessa,* | *þessarar,* | *þessa;* |

| | | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|---|
| Fleirt. | gjör. | *þessir,* | *þessar,* | *þessi;* |
| | þol. | *þessa,* | *þessar,* | *þessi;* |
| | þiggj. | | *þessum;* | |
| | eig. | | *þessara.* | |

Í staðinn fyrir *sá* og *sú* hafa fornmenn opt *sjá.* Forna myndin í þol. eint. í karlkyni af *þessi* var *þenna* fyrir *þennan,* og fyrir *þessari* og *þessarar,* þiggj. og eig. eint. í kvennkyni, voru fornmyndirnar *þessarri* og *þessarrar,* og stundum *þessi* og *þessar*; og fyrir *þessara,* eig. fleirt., var áður haft *þessarra* og líka *þessa.*

### 47. gr.

### Tilvísunarfornöfn *(Pronomina relativa).*

Tilvísunarfornöfnin eru *er* og *sem*; eru þau bæði óbeygjanleg með öllu, og eru eigi höfð í eig.; en þegar eig. skal hafa, má hafa þau ásamt eig. hins persónulega fornafns, *hans, hennar, þess, þeirra.*

Athugasemd. Í fornmáli, og þó eigi í hinum elztu ritum Íslendinga, er stundum haft eig. af *hver* með *er* eða *sem,* til að tákna eig. af tilvísunar-fornafni.

### 48. gr.

### Spurningarfornöfn *(Pronomina interrogativa).*

Spurningarfornöfnin eru: *hvor, hver, hvað* (áður *hvat*), *hvaða, hvílíkur. hvor* er haft þegar að eins um tvo er talað, en *hver,* þegar talað er um fleiri; t. a. m. *hvor bræðranna er hærri?* en *hver bræðranna er hæstur?* Bæði má þau hafa, hvort sem vill, sem nafn eða einkunn; þau beygjast reglulega sem *ríkur,* nema að því einu, að þol. eint. í karlkyni er *hvorn, hvern* (til forna opt *hverjan*), fyrir *hvoran, hveran.* Auk þess er í *hver j* skotið nú inn á undan öllum þeim fallendingum, sem hefjast á hljóðstaf (til forna einungis á undan *a* og *u*): *hverjir, hverjar, hverja, hverju, hverjum,* en *hvorir, hvora, hvorar, hvoru, hvorum.*

Athugasemd 1. Af *hver,* þegar það er haft sem *nafn,* var þiggj. opt í fornmálinu *hveim.*

Athugasemd 2. Af *hver* er myndað *sjerhver* og *einhver,* sem beygjast

eins og *hver*. Af *hvor* er myndað *hvorugur*, og beygist það eins og ríkur að öllu leyti. Hin forna myndin fyrir *hvorugur* var *hvárrgi*, *hvárgi*, *hvártki* (af *hvárr* = *hvor* og neitunarorðinu *gi*). Af *hvor* myndast *hvortveggja*, og er hin rjetta beyging þess sú, að *hvor* beygist, eins og áður er sagt, en *tveggja* er óbeygjanlegt.

*hvað* er að rjettu lagi einungis haft sem hvorugkyns nafn; til forna var þiggj. þess *hví*, sem nú er sjaldhaft, og einungis sem atviksorð (= *hvers vegna*), og eig. *hvess*, sem nú er með öllu úrelt orðið.

*hvaða* er eigi fornt orð; er það myndað af *hvað* og er það ávallt haft sem einkunn, og er með öllu óbeygjanlegt.

*hvílíkur* er sett saman af *hví*, hinum forna þiggj. af *hvað*, og *líkur*, og beygist reglulega sem einkunn.

### 49. gr.

### Óákveðin fornöfn (*Pronomina indefinita*).

Hin óákveðnu fornöfn eru: *einn, neinn, enginn, annar, nokkur, einhver, sjerhver, það.*

*einn* og *neinn* beygjast að öllu leyti eins og greinirinn, nema hvað gjör. og þol. eint. í hvorugkyni er *eitt, neitt. einn* er eiginlega töluorðið *einn*, og *neinn* er samsett orð af *nje* og *einn*. *enginn* er sett saman af *einn* og neitunar-smá-orðinu *gi*, sem er skeytt þar aptan við, en við það hefur *ei* breytzt í *e*, það hefur grennzt. Með því þetta orð er þannig samsett, ætti í raun rjettri *einn* að beygjast, en *gi* að haldast óbreytt í öllum föllum, en í stað þess eru fallendingar settar aptan við *gi*. Þó eru leifar hinnar eðlilegu beygingar enn í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni, þar sem *s* er skotið inn í á eptir *n*, og verður því eiganda-endingin tvöföld (eins-kis). Nú er beyging þess svona:

| | | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *enginn*, | *engin*, | *ekkert*; |
| | þol. | *engan*, | *enga*, | *ekkert*; |
| | þiggj. | *engum*, | *engri*, | *engu*; |
| | eig. | *einskis* (*einkis*), | *engrar*, | *einskis*; |
| Fleirt. | gjör. | *engir*, | *engar*, | *engin*; |
| | þol. | *enga*, | *engar*, | *engin*; |
| | þiggj. | | *engum*; | |
| | eig. | | *engra*. | |

Í fornöld voru nokkrar leifar af hinum upprunalegu myndum þessa orðs, sem nú eru með öllu úreltar. Þannig var gjör. eint. í karlkyni og kvennkyni og gjör. og þol. fleirt. í hvorugkyni *engi*; gjör. eint. í hvorugkyni *ekki* (= *eittki*); þol. eint. í karlkyni stundum *einngi*, og þiggj. eint. í hvorugkyni *einugi* (*fátt er svo illt, at einugi dugi*). Á hinn bóginn er og til gjör. eint. í karlkyni: *engr* og *öngr*, og gjör. eint. í kvennkyni *öng*.

*Annar* er eiginlega sama orðið og raðartölu-orðið annar, og beygist það þannig:

| | | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | gjör. | *annar*, | *önnur*, | *annað* (áður *annat*); |
| | þol. | *annan*, | *aðra*, | *annað* (áður *annat*); |
| | þiggj. | *öðrum*, | *annari* (áður *annarri*), | *öðru*; |
| | eig. | *annars*, | *annarar* (áður *annarrar*), | *annars*; |
| Fleirt. | gjör. | *aðrir*, | *aðrar*, | *önnur*; |
| | þol. | *aðra*, | *aðrar*, | *önnur*; |
| | þiggj. | | *öðrum*; | |
| | eig. | | *annara* (áður *annarra*); | |

Eins og sjá má á beygingunni, dregst þetta orð saman í öllum þeim föllum, þar sem endingin hefst á hljóðstaf, eins og flest önnur nöfn og einkunnir í íslenzku; en við þennan samdrátt ætti *nn* að fara næst á undan *r*, en það þykir ávallt láta illa í íslenzku, og sökum þess hefur *nn* breytzt í *ð* í þessum föllum. Í *annað* er *r* fallið burtu af meginhlutanum.

*nokkur* beygist reglulega sem *ríkur*, nema hvað þol. eint. í karlkyni er *nokkurn* (fyrir *nokkuran*); það er og rjettast að draga þetta orð saman í öllum þeim föllum, þar sem endingin hefst á hljóðstaf; t. a. m. *nokkrum*, *nokkru*, *nokkra*, o. s. frv., þótt sumir eigi fylgi þeirri reglu. *einhver* og *sjerhver* beygjast eins og *hver*, eins og áður er sagt.

*Það* er að eins haft persónulaust.

## 50. gr.

### Töluorðin (*Numeralia*).

Töluorðin skiptast í frumtölur (*numeralia cardinalia*), og raðtölur (*numeralia ordinalia*), og skiptitölur (*numeralia distributiva*), og eru þessar:

| Frumtölur. | Raðtölur: |
|---|---|
| *einn, ein, eitt*; | *fyrsti, fyrsta, fyrsta*; |
| *tveir, tvær, tvö*; | *annar, önnur, annað*; |
| *þrír, þrjár, þrjú*; | *þriðji, þriðja, þriðja*; |
| *fjórir, fjórar, fjögur*; | *fjórði,* o. s. frv.; |
| *fimm*; | *fimmti*; |
| *sex*; | *sjötti (sjetti)*; |
| *sjö* (áður *sjau*); | *sjöundi* (áður *sjaundi*); |
| *átta*; | *áttundi* (áður *átti*); |
| *níu*; | *níundi*; |
| *tíu*; | *tíundi*; |
| *ellefu*; | *ellefti*; |
| *tólf*; | *tólfti*; |
| *þrettán*; | *þrettándi*; |
| *fjórtán*; | *fjórtándi*; |
| *fimmtán*; | *fimmtándi*; |
| *sextán*; | *sextándi*; |
| *sautján (seytján)*; | *sautjándi (seytjándi)*; |
| *átján*; | *átjándi*; |
| *nítján*; | *nítjándi*; |
| *tuttugu*; | *tuttugasti*; |
| *tuttugu og einn,* o. s. frv.; | *tuttugasti og fyrsti,* o. s. frv.; |
| *þrjátíu*; | *þrítugasti*; |
| *fjörutíu*; | *fertugasti*; |
| *fimmtíu*; | *fimmtugasti*; |
| *sextíu*; | *sextugasti*; |
| *sjötíu*; | *sjötugasti*; |
| *áttatíu*; | *áttatugasti*; |
| *níutíu*; | *nítugasti*; |
| *hundrað*; | *hundraðasti*; |
| *hundrað* og *einn,* o. s. frv.; | *hundraðasti og fyrsti,* o. s. frv.; |
| *tvöhundruð,* o. s. frv.; | *tvöhundraðasti*; |
| *þúsund.* | *þúsundasti.* |

## 51. gr.

Af frumtölunum beygjast að eins fjórar hinar fyrstu, *hundrað* og *þúsund*. *einn* beygist eins og greinirinn, nema hvað gjör. og þol. eint. í hvorugkyni er *eitt*. Hin beygjast svona:

| | Karlk. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|
| gjör. | *tveir,* | *tvær,* | *tvö* (áður *tvau*); |
| þol. | *tvo* (áður *tvá*), | *tvær,* | *tvö* (áður *tvau*); |
| þiggj. | | *tveim, tveimur*; | |
| eig. | | *tveggja.* | |
| gjör. | *þrír,* | *þrjár,* | *þrjú*; |
| þol. | *þrjá,* | *þrjár,* | *þrjú*; |
| þiggj. | | *þrem, þremur* (*þrim, þrimur*); | |
| eig. | | *þriggja.* | |
| gjör. | *fjórir,* | *fjórar,* | *fjögur*; |
| þol. | *fjóra,* | *fjórar,* | *fjögur*; |
| þiggj. | | *fjórum*; | |
| eig. | | *fjögra.* | |

*hundrað* beygist reglulega eins og hvert annað hvorugkynsnafn (eins og *hjerað*). *þúsund* er ýmist haft hvorugkyns eða kvennkyns, og þó optar kvennkyns (fleirt. *þúsundir* eða *þúsund, þúsundum, þúsunda, tvær þúsundir* eða *tvö þúsund*). *þrettán — sextán* eru mynduð af stofni einingarinnar og endingunni *tán,* en *sautján — nítján* með meginhluta einingarinnar og afleiðslu-endingunni *tján,* nema hvað í *átján t* tvöfaldast eigi; *tuttugu* er eiginlega sett saman af *tví,* stofninum í *tveir,* og *tugur,* en *þrjátíu* til *níutíu* af einingunni og *tíu*; en við það breytist einingin nokkuð í *þrjátíu* og *fjörutíu.*

Fornmenn töldu hundrað 120, og kölluðu það stundum *tólfrætt hundrað*; það helzt enn í ýmsum talningum, t. a. m. um fisk, og hundrað á landsvísu = 120 álnir; það er kallað *stórt hundrað,* en 100 er nefnt *smátt hundrað,* eða líka *tíutíu*; 110 er þá *ellefutíu.*

Þegar tvær eða fleiri tölur standa saman, er það rjettast og venjulegast, að nefna þær í sömu röð og stærð þeirra er til, og sameina hina tvær síðustu með *og,* en láta hinar undanfarandi samtengingarlausar, t. a. m. *ein þúsund sjö hundruð þrjátíu og tveir.* Stundum er þó einingin sett á undan tugnum, t. a. m. *tveir og tuttugu,* o. s. frv.

Allar frumtölur, nema *hundrað* og *þúsund,* eru hafðar sem einkunnir. En í stað *tuttugu, þrjátíu,* o. s. frv. má og segja

*tveir tugir, þrír tugir* o. s. frv., og er þá nafnið, sem með fylgir, sett í eig., t. a. m. *þrír tugir manna.*

52. gr.

Raðtölurnar, að undanteknum *fyrsti* og *annar*, eru myndaðar af frumtölunum með afleiðsluendingunni *ti (fimmti, sjötti, ellefti, tólfti), di (þrettándi* til *nítjándi), ði (fjórði), ndi (sjöundi — tíundi)*; af tugunum sjálfum, af einingunni og *tugur* með afleiðsluendingunni *asti (tuttugasti — nítugasti*; *hundraðasti*, *þúsundasti).* Þó verða við þessa afleiðslu ýmsar smá breytingar á meginhluta frumtalnanna, t. a. m. *sjötti* eða *sjetti,* af *sex.* Raðtölurnar beygjast allar eins og einkunnirnar, er greinirinn fer með þeim, nema *annar,* og er skýrt frá beygingu þess þegar áður (sjá *óákveðnu* fornöfnin).

53. gr.

Skiptitölurnar eru að eins: *einir, tvennir, þrennir, fernir;* beygjast þær reglulega eins og einkunnir; þær eru að eins hafðar í fleirtölu, nema í hvorugkyninu, þar eru þær og hafðar í eintölu: *tvennt, tvenn (í einu lagi, tvennu lagi, þrennu lagi, fernu lagi).*

54. gr.

Enn fremur ber þess að geta, að af tugunum myndast einkunnir, sem tákna aldur, lengd eða dýpt; eru þær myndaðar af 20 – 70 af meginhluta einingarinnar og orðinu *tugur,* en af 80—120 með endingunni *ræður,* og eru þær einkunnir:

| | | | |
|---|---|---|---|
| *tvítugur;* | *fimmtugur;* | *áttræður;* | *ellefuræður;* |
| *þrítugur;* | *sextugur;* | *níræður;* | *tólfræður.* |
| *fertugur;* | *sjötugur;* | *tíræður;* | |

Af þessum orðum má aptur mynda önnur ný með því, að setja *hálf* fyrir framan: *hálfþrítugur,* 25 ára gamall; *hálffertugur,* 35 ára; *hálfáttræður,* 75 ára.

55. gr.

Margföldunartölur eru og til, og eru þær myndaðar af meginhluta einingarinnar og *faldur: einfaldur, tvöfaldur, þrefaldur, ferfaldur* og *fjórfaldur, fimmfaldur, nífaldur, tífaldur,* o. s. frv., og beygjast þær reglulega sem einkunnir.

56. gr.

Af sumum einingunum eru og til nöfn, til að tákna með fjölda: *eining*, *tvenning*, *þrenning*, *fimmt*, *sjett*, *sjöund*, *tylft*. Til að tákna hluta einhvers, eru og nöfn mynduð af ýmsum raðtölum með afleiðsluendingunni *ungur*; og eru þau: *þriðjungur*, *fjórðungur*, *fimmtungur*, *sjöttungur*, *áttungur*, *tólftungur*, og svo *tíund*, sem er haft að eins um afgjald. Auk þess er *helmingur* (fyrir *helfingur*) og *helft* af *hálfur*.

57. gr.

Töluatviksorð eru að eins *tvisvar* og *þrisvar*, og er þó stundum haft *sinnum* með þeim: *tvisvar sinnum*, *þrisvar sinnum*. Öll önnur töluatviksorð eru táknuð með einingunni og *sinni*: *einu sinni*, *fjórum sinnum*, o. s. frv.

---

## Sagnir *(verba)*.

58. gr.

Sagnir í íslenzku hafa að eins 2 tíðir, núlega tíð *(tempus praesens)* og þálega tíð *(tempus imperfectum)*, er sjeu ósamsettar, eða sem myndaðar verða með beygingu orðanna; hinar tíðirnar, núliðna tíð *(tempus perfectum)*, þáliðna tíð *(tempus plusqvamperfectum)* og ókomna tíð *(tempus futurum)* verður að mynda með hjálparsögnum, og skal síðar um það tala. Hættirnir eru: framsöguháttur *(modus indicativus)*, afleiðingarháttur *(modus conjunctivus)*, bjóðandi háttur *(modus imperativus)*, og nafnháttur *(modus infinitivus)*, og auk þess hluttekningarorð núlegs og þálegs tíma *(participium praesens* og *praeteritum)*, og sagnarbót. Tvær eru tölurnar *(numeri)*, sem í flestum öðrum tungum, og 3 persónur í hvorri tölu. Til er og bæði gjörsögn *(activum)* og þolsögn *(passivum)*, en þolsagnar myndin er sjaldan höfð í þolsagnarmerkingu, heldur verður þá að setja saman með tilsvarandi mynd af *vera* og hluttekningarorði liðins tíma af aðalsögninni.

59. gr.

Sögnunum í íslenzku má skipta í 4 flokka eptir endingu 1. persónunnar í núlegum tíma og myndun þálegs tíma, og hlutekningarorðs þálegs tíma.

Einkenni 1. flokksins eru þau, að 1. persóna eint. í núl. t. framsöguh. endast á *a*, sem þá einnig helzt í hinum persónum eintölunnar. Þálega tíðin myndast með endingunni *aði* og verður því 3 atkvæði, og hlutekningarorð lið. t. myndast með endingunni *aður, uð, að* (áður *aðr, uð, at*) og sagnarbótin með *að* (áður *at*). Þannig t. a. m. *jeg kalla, jeg kallaði, kallaður, kallað.*

Einkenni 2. flokksins eru, að 1. persóna eint. núl. t. í framsöguhætti endast á *i*, sem og helzt í hinum tveimur persónum eint.; ending þál. t. er *ti, di, ði,* eða eintómt *i* (sjá síðar); hlutekningarorð liðins tíma myndast með endingunni *dur, d, t,* og sagnarbótin með *t*, t. a. m. *jeg kenni, jeg kenndi, kenndur, kennt;* það er með öðrum orðum, að *i*, sem kemur fram í núl. t. er fellt burtu í þál. t., hlutekningarorði lið. t. og sagnarbótinni.

Þær sagnir, sem heyra til 3. flokksins, eru endingarlausar í 1. persónu eint. núl. t. í framsöguhætti, en 2. og 3. persónan endast nú á *ur* (áður einungis *r*); ending þál. t. er *di*, hlutekningarorð lið. t. endast optast á *inn, in, ið* (stundum líka *dur, d, t*), og ending sagnarbótarinnar er *ið* eða *t*. Í þessum flokknum er *j* skotið inn á undan endingunni *a* í nafnhætti og sökum þess er það, að þar kemur fram það hljóðvarp, sem *i* veldur, ef hljóðvarp annars getur orðið, og helzt í núl. t., en í þál. t., hlutekningarorði lið. t. og sagnarbót kemur aptur frumhljóðið fram og skal nokkru skýrari grein fyrir því gjörð síðar. Þannig t. a. m. *skilja, jeg skil, jeg skildi, skilinn, skilið; telja, jeg tel, jeg taldi, talinn, talið.*

Í 4. flokknum er 1. persóna núl. t. framsöguh. endingarlaus, og sömuleiðis 1. persóna þál. t. í framsöguh., eða með öðrum orðum: þál. t. framsöguháttar hefur enga tíðarendingu; hlutekningarorð liðins tíma endar á *inn, in, ið,* og sagnarbótin á *ið*. Í þeim flokki breytist hljóðstafur meginhlutans á ýmsa vegu, og skal nokkur grein fyrir því gjörð síðar.

Enn fremur skal þess getið um myndun tíðanna, að núl. t. afleiðingarh. er myndaður af fleirtölu núl. t. framsöguh., þannig að ekkert hljóðvarp verður, og verður því sami hljóðstafurinn

í núl. t. afleiðingarh. og í nafnh.; þál. t. afleiðingarháttar er myndaður af fleirt. þál. t. framsöguháttar, þannig, að í sögnunum eptir 3. og 4. flokknum kemur fram í þál. tíð afleiðingarháttar það hljóðvarp, sem *i* veldur, ef sá hljóðstafur er í meginhluta þál. t., er hljóðvarpi getur tekið.

## 60. gr.

Að svo mæltu skal hjer sýna beygingu þessara fjögra flokka.

Gjörsögn.

| Framsöguháttur. | | | 1. flokkur. | 2. flokk. | 3. flokk. | 4. flokk. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Núl. tími. | Eint. | 1. | *jeg kalla,* | *kenni,* | *skil,* | *gef;* |
| | | 2. | *þú kallar,* | *kennir,* | *skilur,* | *gefur;* |
| | | 3. | *hann kallar,* | *kennir,* | *skilur,* | *gefur;* |
| | Fleirt. | 1. | *vjer köllum,* | *kennum,* | *skiljum,* | *gefum;* |
| | | 2. | *þjer kallið,* | *kennið,* | *skiljið,* | *gefið;* |
| | | 3. | *þeir kalla,* | *kenna,* | *skilja,* | *gefa.* |
| Þál. tími. | Eint. | 1. | *jeg kallaði,* | *kenndi,* | *skildi,* | *gaf;* |
| | | 2. | *þú kallaðir,* | *kenndir,* | *skildir,* | *gafst;* |
| | | 3. | *hann kallaði,* | *kenndi,* | *skildi,* | *gaf;* |
| | Fleirt. | 1. | *vjer kölluðum,* | *kenndum,* | *skildum,* | *gáfum;* |
| | | 2. | *þjer kölluðuð,* | *kennduð,* | *skilduð,* | *gáfuð;* |
| | | 3. | *þeir kölluðu,* | *kenndu,* | *skildu,* | *gáfu.* |
| Afleiðingarháttur. | | | | | | |
| Núl. tími. | Eint. | 1. | *jeg kalli,* | *kenni,* | *skilji,* | *gefi;* |
| | | 2. | *þú kallir,* | *kennir,* | *skiljir,* | *gefir;* |
| | | 3. | *hann kalli,* | *kenni,* | *skilji,* | *gefi;* |
| | Fleirt. | 1. | *vjer köllum,* | *kennum,* | *skiljum,* | *gefum;* |
| | | 2. | *þjer kallið,* | *kennið,* | *skiljið,* | *gefið;* |
| | | 3. | *þeir kalli,* | *kenni,* | *skilji,* | *gefi.* |
| Þál. tími. | Eint. | 1. | *jeg kallaði,* | *kenndi,* | *skildi,* | *gæfi;* |
| | | 2. | *þú kallaðir,* | *kenndir,* | *skildir,* | *gæfir;* |
| | | 3. | *hann kallaði,* | *kenndi,* | *skildi,* | *gæfi;* |
| | Fleirt. | 1. | *vjer kölluðum,* | *kenndum,* | *skildum,* | *gæfum;* |
| | | 2. | *þjer kölluðuð,* | *kennduð,* | *skilduð,* | *gæfuð;* |
| | | 3. | *þeir kölluðu,* | *kenndu,* | *skildu,* | *gæfu.* |
| Bjóðandi háttur. | | | | | | |
| | Eint. | 2. | *kalla þú,* | *kenn,* | *skil,* | *gef;* |
| | | 3. | *kalli hann,* | *kenni,* | *skilji,* | *gefi;* |

| | | 1. flokkur. | 2. flokk. | 3. flokk. | 4. flokk. |
|---|---|---|---|---|---|
| Fleirt. | 1. | *köllum vjer,* | *kennum,* | *skiljum,* | *gefum*; |
| | 2. | *kallið þèr,* | *kennið,* | *skiljið,* | *gefið;* |
| | 3. | *kalli þeir,* | *kenni,* | *skilji,* | *gefi.* |
| Nafnháttur. | | *að kalla,* | *kenna,* | *skilja,* | *gefa.* |
| Hlutekningarorð núl. t. | | *kallandi,* | *kennandi,* | *skiljandi,* | *gefandi.* |
| Sagnarbót. | | *kallað,* | *kennt,* | *skilið,* | *gefið.* |

### 61. gr.

### Þolmynd sagnar.

Þolmynd sagnanna myndast með því móti, að *st* er bætt við tilsvarandi áhrifsmynd sagnarinnar, þó svo, að endi áhrifsmyndin á *r*, þá fellur það *r* með öllu í burtu, og endi áhrifsmyndin á *ð* eða *t*, dregst sá stafur saman við *s* á eptir og verður *z*. Þannig verður þá þolmyndin þannig:

Framsöguháttur:

| | | 1. flokkur. | 2. flokkur. | 3. flokkur. | 4. flokkur. |
|---|---|---|---|---|---|
| Núl. t. Eint. | 1. | *jeg kallast,* | *kennist,* | *skilst,* | *gefst*; |
| | 2. | *þú kallast,* | *kennist,* | *skilst,* | *gefst*; |
| | 3. | *hann kallast,* | *kennist,* | *skilst,* | *gefst*; |
| Fleirt. | 1. | *vjer köllumst,* | *kennumst,* | *skiljumst,* | *gefumst*; |
| | 2. | *þjer kallizt,* | *kennizt,* | *skiljizt,* | *gefizt*; |
| | 3. | *þeir kallast.* | *kennast.* | *skiljast.* | *gefast.* |
| Þál. t. Eint. | 1. | *jeg kallaðist,* | *kenndist,* | *skildist,* | *gafst;* |
| | 2. | *þú kallaðist,* | *kenndist,* | *skildist,* | *gafst*; |
| | 3. | *hann kallaðist,* | *kenndist,* | *skildist,* | *gafst*; |
| Fleirt. | 1. | *vjer kölluðumst,* | *kenndumst,* | *skildumst,* | *gáfumst;* |
| | 2. | *þjer kölluðuzt,* | *kenduzt,* | *skilduzt,* | *gáfuzt*; |
| | 3. | *þeir kölluðust.* | *kenndust.* | *skildust.* | *gáfust.* |

Afleiðingarháttur:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Núl. t. Eint. | 1. | *jeg kallist,* | *kennist,* | *skiljist,* | *gefist*; |
| | 2. | *þú kallist,* | *kennist,* | *skiljist,* | *gefist*; |
| | 3. | *hann kallist,* | *kennist,* | *skiljist,* | *gefist*; |
| Fleirt. | 1. | *vjer köllumst,* | *kennumst,* | *skiljumst,* | *gefumst*; |
| | 2. | *þjer kallizt,* | *kennizt,* | *skiljizt,* | *gefizt*; |
| | 3. | *þeir kallist.* | *kennist.* | *skiljist.* | *gefist.* |

| | | 1. flokkur. | 2. flokkur. | 3. flokkur. | 4. flokkur. |
|---|---|---|---|---|---|
| Þál. t. Eint. | 1. | *jeg kallaðist,* | *kenndist,* | *skildist,* | *gæfist;* |
| | 2. | *þú kallaðist,* | *kenndist,* | *skildist,* | *gæfist;* |
| | 3. | *hann kallaðist,* | *kenndist,* | *skildist,* | *gæfist;* |
| Fleirt. | 1. | *vjer kölluðumst,* | *kenndumst,* | *skildumst,* | *gæfumst;* |
| | 2. | *þjer kölluðuzt,* | *kennduzt,* | *skilduzt,* | *gæfuzt;* |
| | 3. | *þeir kölluðust,* | *kenndust,* | *skildust,* | *gæfust.* |
| Bjóðandi háttur: | | | | | |
| Eint. | 2. | *kallast þú,* | *kennist,* | *skiljist,* | *gefst;* |
| | 3. | *kallist hann,* | *kennist,* | *skiljist,* | *gefist;* |
| Fleirt. | 1. | *köllumst vjer,* | *kennumst,* | *skiljumst,* | *gefumst;* |
| | 2. | *kallizt þjer,* | *kennizt,* | *skiljizt,* | *gefizt;* |
| | 3. | *kallist þeir,* | *kennist,* | *skiljist,* | *gefist.* |
| Hluttekningarorð lið. tíma: | | | | | |
| | | *kallaður.* | *kenndur.* | *skilinn.* | *gefinn.* |
| Sagnarbót: | | *kallazt,* | *kennzt,* | *skilizt,* | *gefizt.* |

Athugasemd 1. Í ýmsu var beyging sagnanna í hinni fornu tungunni frá brugðin því, sem nú er haft, og er sá mismunur helzt sá,

1) að 1. pers. eint. í þál. t. framsöguh. og afleiðingarh. og sömuleiðis opt 1. pers. eint. núl. t. afleiðingarháttar enduðust á *a*, þar sem endingin nú er *i*, t. a. m. *kallaða, kennda, talda, telda, gæfa, gefa* o. s. frv.

2) Þar sem vjer nú látum 1. persónu fleirt. núl. tíma í afleiðingarhætti vera eins og 1. persónu eint. núl. t. í framsöguhætti, þá var endingin áður *im*, t. a. m. *kallim, kennim, telim, gefim.*

3) Og sömuleiðis var fleirt. þál. tíð. í afleiðingarh. frábrugðin að því, að endingarhljóðstafurinn var *i*, þar sem nú er *u*; þannig t. a. m.

| | | | |
|---|---|---|---|
| *vjer kallaðim,* | *kenndim,* | *skildim,* | *gæfim;* |
| *þjer kallaðit,* | *kenndit,* | *skildit,* | *gæfit;* |
| *þeir kallaði,* | *kenndi,* | *skildi,* | *gæfi;* o s. frv. |

4) Að þar sem síðasti stafur endingarinnar (í 2. pers. fleirt. og sagnarbót) er nú *ð*, var áður *t*, t. a. m. *kallit, kenndut, töldut, talit, gefit,* o. s. frv.

5) Ending 2. pers. eint. í þál. tíð í framsöguh. af 4. beygingunni var til forna að eins *t*, þar sem vjer nú segjum og ritum *st*, t. a. m. *gaft, fórt, rètt* (af *ráða*), o. s. frv.

Athugasemd 2. Þolsagnar myndin er upphaflega fram komin við það, að hinu apturbeygjanlega fornafni (*pronomen reflexivum*) er knýtt aptan við gjörsagnarmyndina; var því þolmyndarendingin upphaflega *sk*; síðar táknuðu fornmenn hana opt með *z* einni; þannig t. a. m. *kallask*, og síðar *kallaz*.

62. gr.

Um fyrstu beyginguna skal þess getið, að miklu fleiri eru þær sagnir, sem eptir henni beygjast, heldur en eptir nokkurri hinna; eigi eru heldur neinar þær sagnir óreglulegar. Hljóðvarp getur ekkert átt sjer þar stað, nema *a-ö,* þegar persónuendingin hefst á *u,* og þá líka *a-u,* þegar meginhlutinn verður 2 atkvæði; þannig t. a. m. *vjer köllum* (1. pers. fleirt. núl. t. í framsöguhætti); *vjer kölluðum, þjer kölluðuð, þeir kölluðu* (fleirt. þál. t. í framsöguhætti).

63. gr.

Um annan flokkinn skal þess getið, að þar sem ending þál. tíðar er ýmist *ti, di* eða *ði,* þá er hún *ði* alstaðar, þar sem meginhlutinn sjálfur endar á hljóðstaf, eða *g, r, f,* samkvæmt reglum þeim, sem settar eru um, hvar þessir stafir skulu hafðir, í 1. kaflanum; þannig t. a. m. *náði, ljeði, þvoði, vægði, þorði, lifði,* o. s. frv.; en *fylgdi, telgdi,* o. s. frv. Þó eru þær sumar sagnir, þar sem ending þál. t. er *ti,* að minnsta kosti stundum, þar sem meginhlutinn endar á *rð,* t. a. m. *girða, girti,* og er þá *ð* fallið burtu. Þar sem meginhluti sagnarinnar endar á *k, t, p, s,* verður endingin í þál. t. *ti,* t. a. m. *vaka, vakti*; *beita, beitti; kippa, kippti*; *leysa, leysti*; o. s. frv. Þar sem meginhlutinn endar á *b, m, gl, fl, gn, fn,* þar verður ending þál. t. *di,* t. a. m. *kemba, kembdi*; *dreyma, dreymdi; sigla, sigldi*; *tefla, tefldi*; *egna, egndi*; *hefna, hefndi.* Í þeim sögnum, þar sem meginhlutinn endar á *l* eða *n* verður end. þál. t. í sumum *di,* en sumum *ti* og í sumum má hafa báðar endingar jöfnum höndum, án þess nokkur föst regla verði um það sett. Þannig t. a. m. *mæla (metiri) mældi*; en *mæla (loqui) mælti*; *hæla, hældi*; en *vjela, vjelti*; *skella, skelldi* og *skellti.*

Í öllum þeim sögnum, sem þar meginhlutinn endar á *t,* og annar samhljóðandi fer næst á undan því, hver helzt sem er, verður ending þál. t. að eins *i,* með því enginn samhljóðandi getur staðið tvöfaldur á eptir þriðja samhljóðanda, og verður því 1. persóna núl. t. og þál. t. í framsöguhætti eins í þeim sögnum; þannig t. a. m. *jeg birti; jeg ljetti*; *jeg hitti,* sem bæði 1. pers. núl. t. og þál. t. framsöguh.

Hlutteknigarorð liðins tíma er myndað eptir sömu reglum að því leyti, hvort rita skuli *t, d* eða *ð* á undan beygingar-

endingunni, eða bæta beygingarendingunni við meginhluta sagnarinnar óaukinn; þannig t. a. m. *vjeltur, tældur, tjeður, birtur* (af *vjela, tæla, ljá, birta*).

Nokkrar eru þær sagnir eptir annari beygingunni, sem eru óreglulegar í því, að sagnarbótin er mynduð á *að (at)*, eins og sögnin gengi eptir 1. beygingunni; og sömuleiðis hluttekningarorð lið. tíma, þar sem það annars er til. Þessar sagnir eru og frábrugðnar að því, að eptir eðli og uppruna sagna annars flokksins ætti hljóðvarp það, sem *i* veldur, að koma fram þegar í nafnhætti, þar sem hljóðvarp annars getur átt sjer stað, og haldast óbreytt í öllum myndum sagnarinnar, en það er þó eigi ávallt svo, heldur helzt frumhljóðið í núl. t. og þál. tíma framsöguháttar, en hljóðvarpið kemur að eins fram í þál. t. afleiðingarháttar, og líkjast þær sagnir í því 3. beygingunni. Þessar sagnir eru helztar:

| Nafnh. | Framsöguh. núl. t., | þál. t. | Afl. h. þál. t. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|---|
| *vaka,* | *jeg vaki,* | *vakti,* | *vekti,* | *vakað*; |
| *þora,* | *jeg þori,* | *þorði,* | *þyrði,* | *þorað;* |
| *þola,* | *jeg þoli,* | *poldi,* | *þyldi,* | *þolað;* |
| *una,* | *jeg uni,* | *undi,* | *yndi,* | *unað;* |
| *trúa,* | *jeg trúi,* | *trúði,* | *tryði* (f. *trýði*), | *trúað.* |

Sumar sagnir beygjast reglulega eptir 1. beygingunni, en hafa jafnframt ýmsar myndir eptir annari; t. a. m.

| Nafnh. | Framsöguh. núl. tíð, | þál. tíð, | Afleiðingarh. þál. tíð. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|---|
| *duga,* | *duga,* | *dugaði,* | *dugaði,* | *dugað*; |
| | optar *dugi,* | *dugði,* | *dygði;* | |
| *vjela,* | *vjela,* | *vjelaði,* | *vjelaði,* | *vjelað*; |
| | | og *vjelti,* | og *vjelti,* | og *vjelt.* |

Enn þá frábrugðnari er beygingin á *kaupa,* þar sem núl. t. framsöguháttar er *jeg kaupi,* en þál. t. *keypti,* og sagnarbótin *keypt*, eða með öðrum orðum, að þar verður hljóðvarp í þál. t. og sagnarbót, þar sem frumhljóðið kemur fram í nafnh. og núl. t. framsöguháttar.

Enn eru nokkrar sagnir óreglulegar, sem þó verður að telja til annars flokksins, og eru þær helztar:

| Nafnh. | Framsöguh. núl. t. | þál. t. | Afleiðingarh. þál. t. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|---|
| að *ná,* | *jeg næ,* | *náði,* | *næði,* | *náð;* |
| að *ljá,* | *jeg ljæ,* | *ljeði,* | *ljeði,* | *ljeð;* |
| að *þvo,* | *jeg þvæ,* | *þvoði,* | *þvæði,* | *þvoð*[1]. |

Sögnin *hafa* beygist í hinni fornu tungunni helzt eptir *kenna,* en eptir beygingu þessa orðs í tali nú, er það rjettar talið til 3. flokksins; en með því það er haft sem hjálparsögn, til að mynda með núliðna og þáliðna t. *(perfectum* og *plusqvamperfectum),* skal sýna beygingu þess:

| Framsöguh. | | | Afleiðingarh. | Bjóðandih. |
|---|---|---|---|---|
| Núl. t. | Eint. | 1. *jeg hef* (áður *hefi*), | *hafi,* | -»- |
| | | 2. *þú hefur* (áður *hefir*), | *hafir,* | *haf*; |
| | | 3. *hann hefur* (áður *hefir*), | *hafi,* | *hafi*; |
| | Fleirt. | 1. *vjer höfum,* | *höfum* (áður *hafim*), | *höfum;* |
| | | 2. *þjer hafið,* | *hafið,* | *hafið;* |
| | | 3. *þeir hafa,* | *hafi,* | *hafi;* |
| Þál. t. | Eint. | 1. *jeg hafði,* | *hefði;* | |
| | | 2. *þú hafðir,* | *hefðir*; | |
| | | 3. *hann hafði,* | *hefði*; | |
| | Fleirt. | 1. *vjer höfðum,* | *hefðum* (áður *hefðim*); | |
| | | 2. *þjer höfðuð,* | *hefðuð* (áður *hefðit*); | |
| | | 3. *þeir höfðu,* | *hefðu* (áður *hefði*). | |

Nafnháttur: *hafa.*
Hluttekningarorð núl. t. *hafandi*;
— þál. t. *hafður, höfð, haft.*
Sagnarbót: *haft.*

Um þær sagnir, sem hafa einkenni 2. beygingarinnar í núl. t. framsöguháttar og hluttekningarorði liðins tíma, en beygjast að öðru leyti eptir 3. beygingunni, sjá hjer á eptir.

## 64. gr.

Þáleg tíð 3. beygingarinnar myndast á sama hátt og í 2. beygingunni, ýmist með *ti, di* eða *ði,* allt eptir því, hver stafur er síðastur í meginhlutanum, og fer það eptir sömu reglum, og þegar er getið við 2. beyginguna. Ending sagnarbótarinnar er

1) Þetta orð beygist reglulega eptir 4. beygingunni: *þvo, jeg þvæ, þó, þvægi, þvegið.*

reglulega *ið* (áður *it*), en í mörgum orðum er hún að eins *t* eitt, og ræður þar hljóðfegurð, og er því *t* eitt í þeim sögnum, þar sem meginhlutinn endar á *t, ð, s* og mörgum þeim, þar sem meginhlutinn endar á *k* eða *g;* þannig t. a. m. *flytja, flutt*; *kveðja, kvatt; þysja, þust*; *lykja, lukt; segja, sagt*; *leggja, lagt* (áður *lagit*); eins er *spyrja, spurt*; en *þekja, þakið; berja, barið.*

Við þær sagnir er teljast til 3. beygingarinnar, er þess getandi, að *j* er skotið inn á milli meginhlutans og endingarinnar í nafnhætti, eða *j* er haft til þess, að mynda sögnina, og kemur þá einnig þetta *j* fram í fleirt. núlegs tíma framsöguháttar, og þá einnig í núl. t. afleiðingarháttar, og hluttekningarorði núl. t., nema því að eins, að aðrar ástæður sjeu til þess, að það eigi verði sýnilegt, t. a. m. ef meginhlutinn endar á *g*, og endingin hefjist á *i;* t. a. m. *hyggja*; *vjer hyggjum, þjer hyggið,* o. s. frv. Þetta *j* veldur því að hljóðvarp verður ávallt í nafnhætti og núl. t., þar sem það getur orðið, en frumhljóðið kemur aptur fram í þál. t., sagnarbót og hluttekningarorði lið. tíma. Þau hljóðvörp, sem þannig verða í 3. flokknum, eru þrjú: *a-e, u-y, ú-ý.*

| Nafnh. | Núl. t. | Þál. t. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|
| *dvelja,* | *jeg dvel,* | *dvaldi,* | *dvalið;* |
| *stynja,* | *jeg styn,* | *stundi,* | *stunið;* |
| *lýja,* | *jeg lý,* | *lúði,* | *lúið* eða *lúð;* |

Þál. t. af *flýja* er opt *flýði,* og sagnarbót *flúið* eða *flýð,* en hluttekningarorð lið. t. ávallt *flúinn.*

Hin einu orð, þar sem sami hljóðstafur meginhlutans er óbreyttur í öllum myndum sagnarinnar, eru að eins

| | | | |
|---|---|---|---|
| *setja,* | *jeg set,* | *setti,* | *sett;* |
| *selja,* | *jeg sel,* | *seldi,* | *selt;* |
| *skilja,* | *jeg skil,* | *skildi,* | *skilið;* |
| *vilja,* | *jeg vil,* | *vildi,* | *viljað.* |

Við *leggja* og *hyggja* er þess gætandi, að þessi orð hafa að eins eitt *g* í þál. t. og sagnarbót, *lagði, hugði, lagt, hugað,* og er þá annað *g* einungis haft til að mynda með nafnhátt og núl. t., enda er *g* að eins í rótinni: *lag, hugur.*

Þess er áður getið, að þál. t. í afleiðingarhætti sje myndað af fleirt. þál. t. í framsöguh., þannig, að það hljóðvarp verður í afleiðingarhætti, sem *i* veldur, af hljóðinu í þál. tíð framsöguh. Að öðru leyti geta eigi önnur hljóðvörp átt sjer stað í þriðju

beygingunni, en þegar hefur verið talið, nema *a-ö* fleirt. í þál. t. framsöguháttar, þar sem *a* er í eint., t. a. m. *taldi, töldum*, og er þá hljóðvarpið í þál. t. afleiðingarh., eins og auðvitað er, eigi komið af *ö*, heldur af *a*, sem *ö* er runnið af.

Af sögnunum *hyggja, þegja, kunna, vilja, muna, vita*, er sagnarbótin mynduð, eins og þessi orð gengju eptir 1. beygingunni, og verður því: *hugað, þagað, kunnað, viljað, munað, vitað*.

Nokkrar eru þær sagnir, er í núl. t. framsöguháttar hafa endinguna *i, ir*, eins og þær beygðust eptir 2. beygingunni. Þær sagnir eru:

| Nafnh. | Framsöguh. | | Afleiðingarh. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|---|
| | núl. t. | þál. t. | þál. t. | |
| *yrkja,* | *yrki,* | *yrkti, orti,* | *yrkti,* | *yrkt, ort;* |
| *þykja,* | *þyki,* | *þótti,* | *þætti,* | *þótt;* |
| *sækja,* | *sæki,* | *sótti,* | *sækti* (áður *sætti*), | *sótt;* |
| *segja,* | *segi,* | *sagði,* | *segði,* | *sagt;* |
| *þegja,* | *þegi,* | *þagði,* | *þegði,* | *þagað.* |

Ýmsar eru þær sagnir enn af 3. flokknum, sem óreglulegar eru, og eru þær helztar, sem nú skal greina:

| Nafnh. | Framsöguh. | | Afleiðingarh. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|---|
| | núl. t. | þál. t. | þál. t. | |
| *unna,* | *ann,* | *unni,* | *ynni,* | *unnt;* |
| *kunna,* | *kann,* | *kunni,* | *kynni,* | *kunnað;* |
| *muna,* | *man,* | *mundi,* | *myndi,* | *munað;* |
| *þurfa,* | *þarf,* | *þurfti,* | *þyrfti,* | *þurft;* |
| *eiga,* | *á,* | *átti,* | *ætti,* | *átt;* |
| *mega,* | *má,* | *mátti,* | *mætti,* | *mátt;* |
| *knegna* (fornt), | *kná,* | *knátti,* | *knætti;* | |
| *vita,* | *veit,* | *vissi,* | *vissi,* | *vitað;* |
| *vilja,* | *vil,* | *vildi,* | *vildi,* | *viljað;* |
| *munu* / *mundu* | *mun,* / *man,* (fornt) | *mundi,* | *mundi,* / *myndi,* | er ekki til. |
| *skulu* / *skyldu* | *skal,* | *skyldi,* | *skyldi,* | er ekki til. |

Núl. t. framsöguháttar af þessum sögnum beygist óreglulega, með því ending 2. pers. eint. er *t*, og í sumum *st*, og 3. pers. er með öllu endingarlaus, og verður því beygingin þannig:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | 1. | *ann,* | *kann,* | *man,* | *þarf,* | *á,* |
| | 2. | *annt,* | *kannt,* | *manst,* | *þarft,* | *átt,* |
| | 3. | *ann,* | *kann,* | *man,* | *þarf,* | *á,* |
| Fleirt. | 1. | *unnum,* | *kunnum,* | *munum,* | *þurfum,* | *eigum,* |
| | 2. | *unnið,* | *kunnið,* | *munið,* | *þurfið,* | *eigið,* |
| | 3. | *unna,* | *kunna,* | *muna,* | *þurfa,* | *eiga,* |
| Eint. | 1. | *má,* | *veit,* | *vil,* | *mun,* | *skal;* |
| | 2. | *mátt,* | *veizt,* | *vilt,* | *munt,* | *skalt;* |
| | 3. | *má,* | *veit,* | *vill,* | *mun,* | *skal.* |
| Fleirt. | 1. | *megum,* | *vitum,* | *viljum,* | *munum,* | *skulum;* |
| | 2. | *megið,* | *vitið,* | *viljið,* | *munið,* | *skulið;* |
| | 3. | *mega,* | *vita,* | *vilja,* | *munu,* | *skulu.* |

Athugasemd. Fyrir nafnháttinn *vilja* hafa fornmenn stundum *vildu*, og eins hafa þeir opt 3. pers. fleirt. núl. t. *þurfu*, *eigu*, *megu*, og ætti þá nafnhátturinn að vera eins. Þar sem 3. pers. núl. t. af *vilja* er *vill*, þá er það tillíking fyrir *vilr*, og sömu mynd má og finna í 2. pers. fyrir *vilt*.

Enn fremur verður að telja til 3. flokksins þær 5 sagnir, er nú skal greina:

| Nafnh. | Framsöguh. núl. t. | Framsöguh. þál. t. | Afleiðingarh. þál. t. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|---|
| *núa,* | *ný,* | *neri,* | *neri,* | *núið;* |
| *snúa,* | *sný,* | *sneri,* | *sneri,* | *snúið;* |
| *róa,* | *rœ,* | *reri,* | *reri,* | *róið;* |
| *gróa,* | *grœ,* | *greri,* | *greri,* | *gróið;* |
| *sóa,* | *sœ,* | *seri,* | *seri,* | *sóað*[1]. |

## 65. gr.

Þess er áður getið, að 1. pers. núl. t. og þál. t. framsöguháttar í 4. flokknum sje endingarlaus, og sömuleiðis, að þál. t. afleiðingarháttar sje mynduð af fleirt. þál. t. í framsöguhætti; en auk þess breytist hljóðstafur meginhlutans á ýmsa vegu í nafnh., eint. núl. t. og þál. t. framsöguháttar, og sagnarbót, og verða þær hljóðbreytingar ljósast sjeðar af dœmum þeim, sem nú skulu greind. Í fleirt. núl. t. framsöguh. er hljóðstafur meginhlutans ávallt hinn sami og í nafnhætti.

1) Þetta er forn mynd fyrir *sá, sái, sáði, sáð*.

| Nafnh. | Framsöguh. núl. t. | Framsöguh. þál. t. Eint. | Framsöguh. þál. t. Fleirt. | Afleiðingarh. þál. t. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|---|---|
| *a* | *e* | *ó* | *ó* | *æ* | *a* |
| *fara,* | *fer,* | *fór,* | *fórum,* | *færi,* | *farið;* |
| *a* | *e* | *ó* | *ó* | *æ* | *e* |
| *taka,* | *tek,* | *tók,* | *tókum,* | *tæki,* | *tekið;* |
| *á* | *æ* | *je* | *je* | *je* | *á* |
| *gráta,* | *græt,* | *grjet,* | *grjetum,* | *grjeti,* | *grátið;* |
| *e* | *e* | *a* | *á* | *æ* | *e* |
| *gefa,* | *gef,* | *gaf,* | *gáfum,* | *gæfi,* | *gefið;* |
| *e* | *e* | *a* | *á* | *æ* | *o* |
| *bera,* | *ber,* | *bar,* | *bárum,* | *bæri,* | *borið;* |
| *e* | *e* | *a* | *á* | *æ* | *u* |
| *nema,* | *nem,* | *nam,* | *námum,* | *næmi,* | *numið;* |
| *e* | *e* | *a* | *u* | *y* | *u* |
| *brenna,* | *brenn,* | *brann,* | *brunnum,* | *brynni,* | *brunnið;* |
| *e* | *e* | *a* | *u* | *y* | *o* |
| *spretta,* | *sprett,* | *spratt,* | *spruttum,* | *sprytti,* | *sprottið;* |
| *e* | *e* | *ó* | *ó* | *æ* | *a* |
| *sverja,* | *sver,* | *sór,* | *sórum,* | *sœri,* | *svarið;* |
| *i* | *i* | *a* | *á* | *æ* | *e* |
| *biðja,* | *bið,* | *bað,* | *báðum,* | *bæði,* | *beðið;* |
| *i* | *i* | *a* | *u* | *y* | *u* |
| *springa,* | *spring,* | *sprakk,* | *sprungum,* | *spryngi,* | *sprungið;* |
| *í* | *í* | *ei* | *i* | *i* | *i* |
| *ríða,* | *ríð,* | *reið,* | *riðum,* | *riði,* | *riðið;* |
| *jó* | *ý* | *au* | *u* | *y* | *o* |
| *brjóta,* | *brýt,* | *braut,* | *brutum,* | *bryti,* | *brotið.* |
| *ú* / *jú* | *ý* | *au* | *u* | *y* | *o* |
| *rjúfa,* | *rýf,* | *rauf,* | *rufum,* | *ryfi,* | *rofið.* |
| *lúta,* | *lýt,* | *laut,* | *lutum,* | *lyti,* | *lotið.* |

þær sagnir eptir 4. beygingunni, þar sem hljóðstafur meginhlutans er *i*, og *g* eitt fer á eptir, hafa tvöfalda mynd í eint. þál. tíðar í framsöguhætti, bæði *eig* og líka *je*, t. a. m. *stíga, steig* og *stje*; *hníga, hneig* og *hnje*; á sama hátt er þál. t. af *víkja, veik* og *vjek*. Enn fremur hafa þær sagnir, þar sem *jú* (ekki *ú*) er í meginhlutanum, og *g* fer á eptir, tvöfalda mynd í eint. þál. t. framsöguh., bæði *aug* og líka *ó*; eins og t. a. m. *fljúga, flaug* og *fló, smjúga, smaug* og *smó*. Fleirt. beggja þessara sagnaflokka er regluleg; hljóðstafur meginhlutans þar er ávallt *i, u,* og *g* hverfur aldrei; t. a. m. *stigum, hnigum, vikum, flugum, smugum*, o. s. frv.

Auk þeirra hljóðbreytinga, sem þegar er um getið að verði í 4. beygingunni, eru enn ýmsar sagnir, sem hver einstök hefur sjerstakar hljóðbreytingar í hinum ýmsu tíðum, enda þótt hljóðbreytingin í sumum þeirra sje frábrugðin þeim, sem þegar er um getið, að eins í einhverri einni tíð. Hinar helztu þessara sagna eru þær, sem nú skal greina:

| Nafnh. | Framsöguh. | | | Afleiðingarh. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|---|---|
| | núl. t. | þál. t. | | þál. t. | |
| | | Eint. | Fleirt. | | |
| *gjalda,* | *geld,* | *galt,* | *guldum,* | *gyldi,* | *goldið*;[1] |
| *skjálfa,* | *skelf,* | *skalf,* | *skulfum,* | *skylfi,* | *skolfið*; |
| *troða,* | *treð,* | *tróð,* | *tróðum,* | *træði,* | *troðið*;[2] |
| *koma,* | *kem,* | *kom,* | *komum,* | *kæmi,* | *komið*;[3] |
| *jeta,* | *jet,* | *át,* | *átum,* | *æti,* | *jetið*; |
| *vega,* | *veg,* | *vó,* | *vógum,*[4] | *vægi,* | *vegið*; |
| *liggja,* | *ligg,* | *lá,* | *lágum,* | *lægi,* | *legið*;[5] |
| *sjá,* | *sje,* | *sá,* | *sáum,* | *sæi,* | *sjeð*; |
| *fela,* | *fel,* | { *fal,* / *fól,* | *fálum,* | *fæli,* | *falið*; |
| *leika,* | *leik,* | *ljek,* | *ljekum,* | *ljeki,* | *leikið*; |

1) Eins og gjalda beygist líka: *bjarga, berg, barg, burgum, byrgi, borgið*; nú optast: *bjarga, bjargaði, bjargað*, eins og *kalla*.

2) Til forna var í þál. t. af þessari sögn eint. *trað*, fleirt. *tráðum*.

3) Þál. t. til forna: *kvam, kvámum*.

4) Líka *óg, ógum*; til forna *vá, vágum*.

5) Eins og *liggja* beygist líka *þiggja, þigg, þá, þágum, þægi, þegið*. En þiggja er nú líka beygt eptir 3. beygingunni: *þiggja, þigg, þáði, þáð*.

| Nafnh. | Framsöguh. núl. t. | Framsöguh. þál. t. Eint. | Framsöguh. þál. t. Fleirt. | Afleiðingarh. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|---|---|
| *ganga,* | *geng,* | *gekk,* | *gengum,* | *gengi,* | *gengið;* |
| *hanga,* | *hangi,* | *hjekk,* | *hjengum,* | *hjengi,* | *hangið;* |
| *fá,* | *fæ,* | *fjekk,* | *fengum,* | *fengi,* | *fengið;* |
| *heita,* | *heiti,* | *hjet,* | *hjetum,* | *hjeti,* | *heitið;* |
| *blóta,* | *blót,* | *bljet,* | *bljetum,* | *bljeti,* | *blótið;*[1] |
| *syngja,* | *syng,* | *söng,* | *sungum,* | *syngi,* | *sungið;* |
| *sökkva,* | *sökk,* | *sökk,* | *sukkum,* | *sykki,* | *sokkið;*[2] |
| *slá,* | *slæ,* | *sló,* | *slógum,* | *slœgi,* | *slegið;*[3] |
| *hlæja,* | *hlæ,* | *hló,* | *hlógum,* | *hlœgi,* | *hlegið;* |
| *deyja,* | *dey,* | *dó,* | *dóum,* | *dœi,* | *dáið;* |
| *standa,* | *stend,* | *stóð,* | *stóðum,* | *stœði,* | *staðið;* |
| *vaxa,* | *vex,* | *óx,* | *uxum,*[4] | *yxi,* | *vaxið;* |
| *auka,* | *eyk,* | *jók,* | *jukum,*[5] | *jyki,* | *aukið;*[6] |
| *búa,* | *bý,* | *bjó,* | *bjuggum,* | *byggi,* | *búið;* |
| *spúa,* | *spý,* | *spjó,* | *spúðum,*[7] | *spýi,* | *spúið;* |
| *höggva,* | *högg,* | *hjó,* | *hjuggum,* | *hjyggi,* | *höggvið.* |

Enn er hjálparsögnin *vera*, sem höfð er til þess, að mynda með þolsagnir með þolsagnar merkingu, og er þessi beyging þessa orðs:

| Framsöguháttur. | | | Afleiðingarh. | Bjóðandih. |
|---|---|---|---|---|
| Núl. t. | Eint. | 1. *jeg er,* | *sje;* | |
| | | 2. *þú ert,* | *sjert (sjer),* | *ver þú (vertu);* |
| | | 3. *hann er,* | *sje,* | *veri hann;* |
| | Fleirt. | 1. *vjer erum,* | *sjeum* (áður *sèim*), | *verum vjer;* |
| | | 2. *þjer eruð,* | *sjeuð* (áður *sèit*), | *verið þjer;* |
| | | 3. *þeir eru.* | *sjeu* (áður *sè, sèi*). | *veri þeir.* |

1) Þetta orð beygist og opt til forna og ávallt nú eins og *kalla*: *blóta, blótaði, blótað.*

2) Eins og sökkva beygjast líka *hrökkva* og *stökkva.*

3) Þannig líka *flá, flæ, fló, flógum, flœgi, flegið.*

4) Líka *óxum.* 5) Líka *jókum.*

6) Eins og *auka* breytist líka *ausa, eys, jós, jusum* og *jósum, jysi, ausið;* og *hlaupa, hleyp, hljóp, hlupum* og *hljópum, hlaupið.*

7) Eiginlega er þessi mynd af *spýja, spúði,* eins og *lýja, lúði.*

| | | Framsöguháttur. | Afleiðingarháttur. |
|---|---|---|---|
| þál. t. | Eint. | 1. *jeg var,* | *væri;* |
| | | 2. *þú varst,* | *værir;* |
| | | 3. *hann var,* | *væri;* |
| | Fleirt. | 1. *vjer vorum* (áður *várum*), | *værum;* |
| | | 2. *þjer voruð* (áður *várut*), | *væruð;* |
| | | 3. *þeir voru* (áður *váru*). | *væru.* |

Hluttekningarorð núl. t. *verandi.*
Sagnarbót *verið.*

Við 4. beyginguna er þess enn fremur gætandi, að auk hljóðbreytinga þeirra, sem í henni verða, breytast og samhljóðendur meginhlutans á ýmsan veg, eða falla burt í ýmsum tíðum. Þeirra stafabreytinga eru þó merkastar þær, er nú skal greina:

*nd* í nafnh. verður í eint. þál. tíð. að *tt*, t. a. m. *vinda*, *vatt*; *binda*, *batt*; *hrinda*, *hratt*.

*ng* í nafnhætti verður í eint. þál. t. að *kk*, t. a. m. *springa*, *sprakk; stinga*, *stakk; ganga*, *gekk; hanga*, *hjekk*; eins er *fá*, *fjekk*; því að *fjekk* virðist myndað af stofninum *fang (fanga)*; sbr. á þýzku *fangen*. Sbr. I, 10. Þar sem fleirt. þál. t. af *finna* er *fundum*, og sagnarbótin *fundið*, þá virðist hinn eiginlegi stofn orðsins vera *find* (sbr. á engilsaxnesku *findan*; á ensku *find;* á þýzku *finden*), og að *d* hafi tillíkzt undanfarandi *n* í nafnhætti, og núl. t. og eint. þál. t.

66. gr.

Þess hefir verið getið (II, 33 og 36), hvernig hluttekningarorð liðins tíma beygðust; en um hluttekningarorð núl. t. skal þess hjer getið, að þau í hinni fornu tungunni beygðust að öllu eins og einkunnirnar, er greinirinn færi með þeim; nú aptur á móti eru þau í daglegu tali höfð óbeygjanleg, eða með öðrum orðum, þau endast í öllum föllum og öllum kynjum á *i*, t. a. m. *hinn lifandi*, *hinum lifandi*, *hins lifandi*, o. s. frv.; þó eru þeir sumir, er í ritum hafa hina fornu beyginguna.

67. gr.

Sagnirnar í íslenzkunni hafa, eins og áður hefur verið frá skýrt, sjerstakar myndir að eins fyrir 2 tíðir, hina núlegu og

þálegu tíð, en til þess að tákna aðrar tíðir, verður að hafa hjálparsagnir, og er þá fyrst, að núliðin tíð (*tempus praeteritum perfectum*) er táknuð með núl. t. af *hafa* og sagnarbót aðalsagnarinnar, og þáliðin tíð (*tempus praeteritum plusqvamperfectum*) með þál. t. af *hafa*, og sagnarbót þeirrar sagnar, er beygja skal. Þannig t. a. m.:

| | | Framsöguháttur. | Afleiðingarháttur. |
|---|---|---|---|
| Núlið. t. | Eint. | 1. *jeg hef elskað,* | *hafi elskað*; |
| | | 2. *þú hefur elskað,* | *hafir elskað*; |
| | | 3. *hann hefur elskað,* | *hafi elskað;* |
| | Fleirt. | 1. *vjer höfum elskað,* | *höfum elskað*; |
| | | 2. *þjer hafið elskað,* | *hafið elskað*; |
| | | 3. *þeir hafa elskað,* | *hafi elskað.* |
| Þálið. t. | Eint. | 1. *jeg hafði elskað,* | *hefði elskað;* |
| | | 2. *þú hafðir elskað,* | *hefðir elskað;* |
| | | 3. *hann hafði elskað,* | *hefði elskað*; |
| | Fleirt. | 1. *vjer höfðum elskað,* | *hefðum elskað;* |
| | | 2. *þjer höfðuð elskað,* | *hefðuð elskað*; |
| | | 3. *þeir höfðu elskað,* | *hefðu elskað.* |

Af hvorkinlegum sögnum, sem tákna einhverja hreifingu, er núliðin og þáliðin tíð líka mynduð með núl. og þál. t. af *vera* og hluttekningarorði liðins tíma, t. a. m. *jeg er kominn; jeg var kominn; hann er farinn; hann var farinn*; og eins, þótt slíkar sagnir sjeu hafðar í óeiginlegri merkingu, t. a. m. *hann er kominn að raun um það.*

68. gr.

Hin ókomna tíð (*tempus futurum*) er táknuð með núl. t. af *munu*, og nafnhætti aðalsagnarinnar, t. a. m. *jeg mun elska, þú munt elska, hann mun elska*, o. s. frv.

69. gr.

Atviksorð, fyrirsetningar og samtengingarorð eru í íslenzku sem í öðrum tungum óbeygjanlegar, nema hvað atviksorðin geta fengið stigbreytingu; þ. e. að þau í miðstiginu bœta *ar* eða *r* við frumstigsmyndina, en í efsta stigi er bœtt *ast* við stofninn, eða einungis *st*, og verður þar þá það hljóðvarp, sem *i* veldur; þannig t. a. m.

| | | |
|---|---|---|
| *haglega,* | *haglegar,* | *haglegast;* |
| *víða,* | *víðar,* | *víðast;* |
| *opt,* | *optar,* | *optast;* |
| *sjaldan,* | *sjaldnar,* | *sjaldnast;* |
| *norður,* | *norðar,* | *norðast (nyrzt);* |
| *austur,* | *austar,* | *austast;* |
| *vestur,* | *vestar,* | *vestast;* |
| *suður,* | *sunnar,* | *syðst;* |
| *úti,* | *utar,* | *(utast) yzt;* |
| *inni,* | *innar,* | *innst;* |
| *uppi,* | *ofar,* | *efst;* |
| *niðri,* | *neðar,* | *neðst;* |
| *frammi,* | *fremur* og *framar,* | *fremst (framast);* |
| *skammt,* | *skemur,* | *skemmst;* |
| *lengi* (um tíma), | *lengur,* | *lengst;* |
| en *langt* (um stað), | *lengra,* | *lengst;* |
| *nærri* (áður *nær*), | *nær* (áður *nærr*) | *næst;* |
| *fjarri,* | *fjær* eða *firr,* | *firrst.* |

Enn óreglulegri eru:

| | | |
|---|---|---|
| *vel,* | *betur,* | *bezt;* |
| *illa,* | *ver,* | *verst;* |
| *mjög,* | *meir,* | *mest;* |
| *lítt,* | *miður;* | — |
| — | *heldur,* | *helzt.* |

---

# III. KAFLI.

## UM MYNDUN ORÐA.

### 70. gr.

Orð myndast á tvennan hátt, annaðhvort með því, að eitt orð er leitt af öðru, eða með því, að skeyta saman orð. Afleidd orð myndast í íslenzku annaðhvort þannig, að frumhljóð rótarorðsins breytist, og verður annað hljóð í hinu afleidda orðinu, eða með því, að bætt er við stofninn einhverri endingu, sem enga þýðingu hefur út af fyrir sig (afleiðsluending, *derivatio*).

## 1. Um afleiðslu orða.

71. gr.

Þótt annað verði hljóðið í hinu afleidda orði, en í frumorðinu, þá er það þó eigi ávallt hljóðvarp, er eptirfarandi hljóðstafur, *i* eða *u*, valdi; heldur er það opt að eins meginhluti frumorðsins óaukinn með öllu, en hljóðið hefur að eins breytzt, og kemur þó opt hið sama hljóð fram í einhverri mynd frumorðsins í íslenzku, t. a. m. *brot*, af *brjóta (brotið)*, *rauf*, af *rjúfa (jeg rauf)*, *drukkur*, af *drekka (vjer drukkum)*, o. s. frv. Aptur á móti, þar sem reglulegt hljóðvarp á sjer stað í hinu afleidda orði, samkvæmt því, sem áður hefur verið sagt um hljóðvörpin, verður svo á að líta, sem hljóðstafur, er hafður hafi verið til afleiðsluendingarinnar, hafi upphaflega valdið hljóðvarpinu, enda þótt hann sje nú horfinn, og sjást hans þó víða menjar, þar sem endingin hefst á hljóðstaf. Sbr. 74. gr.

72. gr.

Afleiðsluendingar karlkynsnafna.

Hinar helztu afleiðsluendingar karlkynsnafna eru þær, sem nú skal greina.

Þau karlkennd nöfn, sem í gjör. eint. enda á *i*, tákna 1) þann, er gjörir eitthvað, t. a. m. *brjefberi, leiðtogi, spillvirki, arfi, drottinsviki*, o. s. frv.; 2) einhvern af þeirri eða þeirri þjóð, t. a. m. *Jóti, Tyrki*, o. s. frv.; en þau nöfn eru optast höfð að eins í fleirtölu *(Jótar, Tyrkir)*; *búi, byggi (Fjónbúar, Jaðarbyggjar)*; 3) enn fremur ýmsa dauða hluti eða hugmyndir, t. a. m. *bruni, hiti, bogi, floti, skuggi, vilji*, o. s. frv. Þetta *i* er að rjettu lagi að eins fallending, en eigi afleiðsluending, enda helzt það hvergi í hinum föllunum, nje heldur veldur það hljóðvarpi, en þó virðist rjettast, að geta þessara nafna hjer.

*ir* er haft til að tákna með þann, sem einhverja sýslu hefur á hendi, eða hlut, sem lík hugmynd felst í, t. a. m. *hirðir, læknir, vísir (leiðarvísir), þerrir*, o. s. frv.

*all*: *bagall, þumall, vaðall* og *vaðill*, o. s. frv.

*ill*: t. a. m. *ekkill, biðill, ferill, fífill, kistill, kyrtill, kyndill, legill, pistill, snigill*, o. s. frv. Sum karlkennd nöfn enda ýmist á *ill* eða *ull*, t. a. m. *skutill*, nú *skutull*; *virgill* og *virgull*.

*ull*: *böggull, hörgull, söðull, stöðull, stökkull, möttull.*

*ar: hamar, nafar, kopar.*

*ur: jöfur* (konungur), *fjötur* (nú optast hvorugkyns), *piður* (fuglsheiti), o. s. frv.

*ann: aptann, þjóðann* (fornt skálda orð, = konungur).

*inn: drottinn, Óðinn.*

*unn: jötunn, Auðunn.*

*ari* táknar þann, sem hefur einhverja sýslu á hendi, eða er í einhverri stöðu, t. a. m. *dómari, bakari, keisari, meistari,* o. s. frv. Einnig tákna þess konar orð hluti, t. a. m. *kjallari, pundari.*

*andi* er haft til að tákna með menn, og eru þau nöfn, sem þessa endingu hafa, eiginlega hlutekningarorð núl. t. af sögnum; þannig t. a. m. *dómandi, lesandi, eptirkomandi,* o. s. frv.

*aldi: glópaldi, ribbaldi, úlfaldi,* o. s. frv. Í þessari endingu virðist að felast fremur ill merking.

*aður, naður* og *uður, hernaður, búnaður, kostnaður, fagnaður* og *fögnuður, safnaður* og *söfnuður*, *mánuður* (áður *mánaðr).*

*ingi* er haft til að tákna menn; t. a. m. *ræningi, morðingi, höfðingi, frelsingi, heiðingi, ættingi,* o. s. frv. Í þess konar orðum er *j* ávallt skotið inn í þeim föllum, þar sem endingin byrjar á *a* eða *u.*

*ingur: spekingur, vitringur, níðingur, skiptingur, ferhyrningur, þríhyrningur,* o. s. frv. Með þessari endingu eru mörg þjóðanöfn mynduð, t. a. m. *Íslendingur, Englendingur, Færeyingur, Orkneyingur; Austfirðingur, Sunnlendingur, Upplendingur,* o. s. frv.

*ungur*; með þessari endingu eru opt mynduð ættanöfn *(patronymica)*, en líka mörg önnur orð: *Skjöldungur, Völsungur; bræðrungur, systrungur; spjátrungur; priðjungur, fjórðungur,* o. s. frv.; *graðungur, þumlungur,* o. s. frv.

*lingur* er einnig haft til þess, að mynda með ættanöfn: *Knýtlingur, Ynglingur;* en líka til að mynda með þess konar nöfn, er í felst eitthvað minna, en í frumorðinu, t. a. m. *bæklingur, ritlingur, kviðlingur, yrmlingur, unglingur,* o. s. frv.

*ningur: gjörningur, snúningur, varningur,* o. s. frv.

*si: vansi, ofsi, galsi, gassi, kalsi,* o. s. frv.

*stur: bakstur, rekstur.*

*leiki* og *leikur: kærleiki* og *kærleikur, sannleiki* og *sannleikur, ódauðleiki* og *ódauðleikur, sætleikur,* o. s. frv.

*skapur: fjandskapur, höfðingskapur, drengskapur,* o. s. frv.

73. gr.

Afleiðsluendingar kvennkynsnafna.

Hinar helztu afleiðsluendingar kvennkenndra nafna eru þær, sem nú skal greina.

*a:* þessa endingu hefur fjöldi kvennkenndra nafna, og tákna: 1) sum þeirra karlmenn, t. a. m. *hetja, skytta, mannæta.* 2) Sum tákna kvennkenndar verur, þar sem hin tilsvarandi karlkynsorð endast á *ur,* t. a. m. *vina, Finna, gyðja.* 3) Sum eru leidd af öðrum nöfnum, t. a. m. *hella* (af *hallur*), *þekja* (af *þak*), *smiðja* (af *smiður*). 4) Þá hafa mörg kvennkennd nöfn þessa endingu, sem leidd eru af stofni sagna, t. a. m. *saga, sala, seta, þvaga, suða,* o. s. frv. 5) Mörg nöfn, sem endast á *a,* tákna einhvern eiginlegleika, t. a. m. *fita, birta, blíða, seigja, deigja, bleyta, vitleysa, málleysa,* o. s. frv.

*i:* þau orð, sem hafa upphaflega haft þessa endingu, tákna flest einhvern eiginlegleika og eru óbeygjanleg: *hreysti, sanngirni, fýsi, speki, rjettvísi, ættvísi, fræði* (t. a. m. *málfræði, guðfræði,* o. s. frv.). Hjer til má og telja þau kvennkennd nöfn, sem hafa afleiðsluendinguna *semi: frændsemi, miskunsemi, góðsemi, skynsemi,* o. s. frv. Auk þess eru mörg kvennkennd nöfn, sem nú endast á *i,* en hafa fyrir öndverðu endazt á *r;* t. a. m. *heiði, veiði, mýri,* áður *heiðr, veiðr, mýrr.*

*un,* áður *an: iðrun, andvörpun, byrjun, dýrkun, þrælkun,* o. s. frv.

*n: auðn, athöfn, heyrn, lausn, sögn, skírn, eign, þögn,* o. s. frv.

*andi:* einungis í orðunum *kveðandi, hyggjandi.*

*átta: vinátta, víðátta, barátta, kunnátta,* o. s. frv.

*eskja: vitneskja, forneskja, harðneskja.*

*mennska: illmennska, góðmennska, stórmennska, sjómennska,* o. s. frv.

*ing: kenning, refsing, sigling, hegning, víking, drottning, kerling,* o. s. frv.

*ning: játning, setning,* o. s. frv.

*ung: djörfung, launung, háðung, hörmung,* o. s. frv.

*und: tegund, vitund, þúsund, tíund,* o. s. frv.

*ska: illska, bernska, heimska, dirfska, fólska, mælska, gríska, þýzka, enska, danska.*

*usta: þjónusta, hollusta, kunnusta,* o. s. frv.

*ynja* (fágætt): *ásynja.*

*la: hrísla, pyttla.*

*sla: reynsla, vígsla, hræðsla, veizla,* o. s. frv.

*ka: hálka, harka, blaðka, grœnka,* o. s. frv.

*ð, d, t: hæð, ferð, vægð, byggð, hefð, erfð; hvíld, deild, reynd, skemmd, lengd, vídd, breidd; þykkt, nekt, dýpt,* o. s. frv.

## 74. gr.

### Afleiðsluendingar hvorugkynsorða.

Afleiðsluendingar hvorugkynsorða eru helztar þær, sem nú skal telja:

*i: bœli, vætti, þýfi, virki (illvirki), menni (fjölmenni); gresi (illgresi); ræði (*í *stórræði, svikræði); lyndi (lauslyndi, hviklyndi, stórlyndi,* o. s. frv.); *yrmi (illyrmi); lífi (langlífi); degi (hádegi, miðdegi); nætti (miðnætti); ferði (siðferði, kynferði, framferði); neyti (föruneyti, mötuneyti); læti (lauslæti, rjettlæti, ranglæti); leysi (sakleysi, guðleysi); ferli (*í *málaferli, vígaferli, sóttarferli, skapferli).* Mörg þeirra hvorugkynsnafna, sem nú eru endingarlaus, hafa upphaflega haft afleiðsluendinguna *i*, enda kemur það fram sem *j* í þeim föllum þeirra, þar sem endingin hefst á *a* eða *u*, og sökum þess hafa öll þau orð hljóðvarp, t. a. m. *kyn* (fyrir *kyni*, af *kon*), *nes, þil, men,* o. s. frv.; sbr. *kynjum, nesjum, þiljum, menjum.*

*al: aðal, óðal.*

*ald: folald, rekald, kafald, kerald, gímald.*

*an: gaman, óáran, ólyfjan, mannlíkan.*

*ar:* einungis í *sumar.*

*elsi: fangelsi, reykelsi.*

*erni: ætterni, faðerni, bróðerni, líferni, lunderni, salerni.*

*ildi: seigildi, þykkildi.*

*in:* einungis í *megin, regin (= guðir), rekin (= eykir).*

*indi: erindi, hœgindi, hlunnindi, rjettindi, rangindi, sannindi, tíðindi, harðindi, líkindi, vísindi.* Flest þeirra orða eru að eins höfð í fleirtölu.

*sl*, nú optast *sli*: *skrýmsli*, *kennsli*, *beizli*, *þýngsli*, *smyrsli*, *meiðsli*, *ærsli*, o. s. frv.

*ði*, *di*: *erði*, *skæði*; *eldi*, *kvenndi*.

75. gr.

Afleiðsluendingar einkunna.

Þegar um afleiðsluendingar einkunna skal ræða, skal þess getið, að enda þótt *r* sje bætt við gjör. eint. í karlkyni, verður það eigi talin nein afleiðsluending, heldur að eins beygingarending, ef engu öðru er bætt við stofninn. Hinar helztu afleiðsluendingar einkunna eru þær, sem nú skal greina:

*a* (*i*): *jafnsíða*, *landflótta*, *einskipa*, *sjálfala*, *bjargþrota*, *einmana*. Sbr. II, 37. gr.

*all*, *ull*, *ill*, *ll*: *gamall*, *atall*, *vesall*; *stopull* (og *stopall*), *þögull* (og *þagall*); *gjöfull*, *svikull*, *sannsögull*, *víðförull*; *heimill*, *þjettbýll*, *forsjáll*.

*inn*: *hlýðinn*, *hygginn*, *iðinn*, *kostgæfinn*, *gleyminn*, *þrifinn*, *guðrækinn*, *gullinn*, *sendinn*, o. s. frv.

*aður*, *ður*, *dur*, *tur*: *hugaður*, *trúaður*, *hungraður*, *velviljaður*, *hærður*, *hyrndur*, *einhentur* og *einhendur*. Flestar þessara einkunna eru upphaflega hlutekningarorð liðins tíma af sögnum.

*ugur* (*igur*): *auðugur*, *gráðugur*, *kröptugur*, *náðugur*, *nauðugur*, *málugur*, *minnugur*, *ókunnugur*. Hin upphaflega afleiðsluending þessara einkunna hefur verið *igr*, en hefur síðan breytzt í *ugur*, og jafnframt hefur þá *a*, þar sem það hefur verið í rótinni, breytzt í *ö*, t. a. m. *kraptigr* = *kröptugur*, enda er *ugr* miklu almennara í fornritum vorum.

*óttur*: *freknóttur*, *flekkóttur*, *kringlóttur*, *röndóttur*, *kollóttur*, o. s. frv.

*legur*, áður *ligr*: *þriflegur*, *góðlegur*, *gagnlegur*, *góðgjarnlegur*, *göfuglegur*, *iðulegur*, *hermannlegur*, *rösklegur*, *blíðlegur*, o. s. frv.

*samur*: *friðsamur*, *nytsamur*, *gamansamur*, *starfsamur*, o. s. frv.

*skur*: *enskur*, *þýzkur*, *danskur*, *írskur*, *íslenzkur*, *útlenzkur*, *rómverskur*, *saxneskur*, *frakkneskur*, *himneskur*, *jarðneskur*, o. s. frv.

*látur* (af *láta*): *stórlátur, mikillátur, rjettlátur, þrálátur,* o. s. frv.

*leitur*: *hýrleitur, brosleitur, háleitur, grimmleitur, rauðleitur, hvítleitur, grænleitur.* Þessi ending, sem leidd er af sögninni *líta,* táknar ávallt, hvernig eitthvað líti út.

*rænn*: *norrænn, austrænn, suðrænn, vestrænn.*

*verður* (af *verða*): *utanverður, innanverður, ofanverður, neðanverður, öndverður, austanverður, sunnanverður,* o. s. frv.

76. gr.

Afleiðsluendingar atviksorða.

*a*: *illa, víða, heima, gjörva.* Þessi afleiðsluending atviksorða er mjög tíð við einkunnir þær, sem endast á *legur*: *greinilega, göfuglega, góðlega.* Stundum er *lega* stytt í *la*, t. a. m. *harðla* fyrir *harðlega, varla* fyrir *varlega, gjörla* fyrir *gjörlega, árla, síðla.*

*i*: *uppi, niðri, inni, úti, frammi, fjarri,* og táknar þessi ending veruna á staðnum.

*ur* (áður *r*) táknar hreifinguna til staðarins og stundum veruna á staðnum: *norður, austur, suður, vestur, niður, aptur.*

*an* táknar hreifinguna frá staðnum: *heiman, utan, innan, neðan, ofan, hjeðan, sunnan, vestan, norðan, austan.* Þá endingu hafa og ýms atviks orð, er enga hreifingu tákna, t. a. m. *meðan, sjaldan, áðan, síðan, jafnan.*

*að (at), t*: *hingað* (áður *hingat*), *þangað* (áður *þangat*), *hvert.*

*na* er haft til þess, að kveða enn nákvæmar á um eitthvað: *hjerna, þarna, núna, svona.*

*is*: *áleiðis, afleiðis, heimleiðis, jafnfætis, framvegis, árdegis, útbyrðis, optsinnis, sömuleiðis, andsælis, andstreymis, forstreymis, forbrekkis, umhverfis, ókeypis,* o. s. frv.

*ig (eg)*: *þannig, hvernig, einnig.* Þessi orð eru eiginlega samskeytt af þol. eint. *þann, hvern, einn* og *veg* (þol. eint. af *vegur*), og er því fyrir *þann veg, hvern veg, einn veg.* Nú er líka sagt: *þannin, hvernin, einnin,* eiginlega fyrir *þann veginn, hvern veginn, einn veginn.*

Enn fremur skal þess geta hjer, að mörg atviksorð enda nú á *um,* en eru eiginlega þiggjandi fleirt. af nöfnum eða ein-

kunnum; þannig t. a. m. *stundum, tíðum, einkum, löngum, stórum.* Auk þess er eig. eint. af nöfnum hafður stundum sem atviksorð, t. a. m. *loks* og *loksins*; *annarstaðar, alstaðar*, o. s. frv.

### 77. gr.
### Afleiðsluendingar sagna.

*ja:* þetta *j* hefur upphaflega verið *i*, og veldur því hljóðvarpi í meginhlutanum, ef sá hljóðstafur annars er í meginhlutanum, sem hljóðvarpi getur tekið, og er það fjöldi áhrifssagna, sem þannig eru myndaðar, þar sem afleiðsluending hinna hvorkinlegu sagna, er til þeirra svara, eigi er *j*, og eru þá áhrifssagnirnar myndaðar af hinum hvorkinlegu, en þetta *j* hverfur, eins og sjálfsagt er, alstaðar, þar sem endingin hefst á samhljóðanda, og sömuleiðis í hinni fornu tungu þar, sem endingin hófst á *i*; þannig t. a. m. *lægja, temja, eygja, hylja, flýja; hengja* (af *hanga*), *smeygja* (af *smjúga, smaug*); *reykja* (af *rjúka, rauk*), o. s. frv. Víða er það, að hljóðvarp verður í meginhlutanum, þótt ekkert *j* fari á eptir, og verður þá svo á að líta, sem *j* sje fallið burtu, en hafi þó einhvern tíma verið, og því sje hljóðvarpið orðið, þannig t. a. m.:

*dæma*, af *dómur*; *brenna, brenndi*, af *brenna, brann; fella, felldi*, af *falla; setja, setti*, af *sitja, sat; hleypa, hleypti*, af *hlaupa; færa, færði*, af *fara, fór; svæfa, svæfði*, af *sofa, sváfum.*

*la: sagla* (af *saga*); *staglast* (af *staga*); *biðla* (af *biðja*, sbr. *biðill*); *hvarfla* (af *hverfa, hvarf*); *hnuðla* (af *hnoða*), o. s. frv.

*na: batna* (af *bati*); *blikna* (af *bleikur*); *brotna* (af *brot*); *sortna* (af *sorti*); *fölna* (af *fölur*); *roðna* (af *roði*); *losna* (af *los*), o. s. frv. Þessi ending táknar, að hluturinn komist í eitthvert ásigkomulag.

*ra: klifra, haltra, hliðra*, o. s. frv. (af *klif, haltur, hlið*), o. s. frv.

*ta: játa, neita, blakta, skemmta, yppta*, (af *já, nei, blak, skammur, upp*), o. s. frv.

*ga: frjóvga, lífga, fjölga, syndga* (af *frjór, líf, fjöl, synd*), o. s. frv. Sumar þess konar sagna virðast vera leiddar af einkunnum upp á *-ugur*, t. a. m. *blóðga, auðga* (af *blóðugur, auðugur*), o. s. frv.

*ka: seinka, blíðka, tíðka, grænka, þurrka* (af *seinn, blíður, tíður, grænn, þurr*), o. s. frv.; *hækka, stækka, mjókka, minnka* eru leidd af miðstigunum: *hærri, stærri, mjórri, minni*, og hefur *r* tillíkzt eptirfarandi *k* í þremur fyrstu orðunum.

*sa: hugsa, hreinsa, hrifsa, hramsa, glepsa*, o. s. frv.

## 2. Um samskeytingu orða.

### 78. gr.

Samskeyting orða er það, er tvö orð eru sett saman og gjört úr eitt orð; er þá svo optast á litið, að síðara orðið sje aðalorðið, en hið fyrra sje haft til nánar að kveða á um það.

### 79. gr.
### Samskeyting nafna.

Nafn má skeyta ýmist framan við nafn, einkunn eða sögn.

Þegar nafn er skeytt framan við annað orð, má það verða á fernan hátt,

1. þannig, að af nafninu er að eins tekinn meginhlutinn, endingarlaus með öllu, og kemur þá ávallt fram hið upphaflega *a*-hljóð í því nafni, enda þótt hljóðvarp *ö* sje í því ósamsettu, svo framarlega, sem þetta *ö* eigi helzt í öllum myndum þess, og má setja nafnið þannig framan við nöfn, einkunnir og sagnir; þannig t. a. m. *sólskin, eldhús, vagnslóð, handfang, jarðeldur, skíðfær, vongóður, hálslangur, höfuðlítill, krossfesta, handhöggva, fótbrjóta, fóthöggva, varðveita*, o. s. frv.; en *höggstaður, fjörlausn*, o. s. frv.

2. Opt er og hafður eigandi nafns og skeyttur framan við nafn eða einkunn, t. a. m. *andardráttur, sólarlag, móðurbróðir, lagabrot, gatnamót*, o. s. frv.; *ennisbreiður, hnakkakerrtur, mýrarkenndur*, o. s. frv.

3. Við kvennkynsnöfn, sem enda á *semi*, og ýms þau, sem enda á *i* og eru óbeygjanleg, er bætt við *s* er þau eru skeytt framan við nöfn eða einkunnir, t. a. m. *frændsemistala, hlýðnismerki, hræsnisfullur*, o. s. frv.

4. Stundum er *u* bætt við meginhluta fyrra nafnsins og haft sem samtengingarstafur, helzt við kvennkynsnöfn eptir 2. beygingunni, t. a. m. *förunautur, föruneyti*, og verður þá ávallt *ö* í meginhlutanum, ef *a* er frumstafurinn. Líkt er um *mánudagur* fyrir *mánadagur, mátulegur*.

### 80. gr.

### Samskeyting einkunna.

Þegar einkunn er skeytt framan við annað orð, hvort heldur er nafn, einkunn eða sögn, er það langalmennast, að til þess er tekinn að eins meginhlutinn endingarlaus. Þannig t. a. m. *sannleikur, stórbú, smákonungur, nýlenda, blíðlyndi; fagurhærður, grimmúðugur, blíðlyndur, laushár; kunngjöra, rangfæra, smásaxa,* o. s. frv.

Við eiginleg nöfn (*nomina propria*) er stundum einkunnin skeytt þannig, að hún fær sömu endingu og ef greinirinn færi með og beygist reglulega, eptir því, hvert fallið haft er, t. a. m. *Mikligarður, Miklagarðs, Miklagarði; Breiðifjörður, Breiðafjörð, Breiðafjarðar,* o. s. frv.

### 81. gr.

### Samskeyting sagna.

Sagnir verða að eins settar framan við nöfn þannig, að *i* er haft sem samtengingarstafur millum meginhluta sagnarinnar og nafnsins, þannig t. a. m. *kennimaður, lærisveinn, lærifaðir, sendiboði, sendibrjef, hengilás, brennisteinn.*

### 82. gr.

### Samskeyting smáorða.

Atviksorð og fyrirsetningar eru ávallt skeytt óbreytt framan við önnur orð, t. a. m. *Norðurland, heimanfylgja, útivist, útnorður, aftaka, fyrirsetning, aðgangur.* Þó má það verða, að sum þeirra styttist, einkum í afleiddum orðum, t. a. m. *Norðlendingur, Sunnlendingur* (en *Suðurland*), *Austfirðir, Austfirðingur, Vestfirðir, Vestfirðingur, sjaldhafður* (af *sjaldan*), *sammæðra* (af *saman*), o. s. frv.

### 83. gr.

Að síðustu skal geta nokkurra, sem að eins eru höfð, sem fyrri hluti samskeyttra orða.

*auð* táknar, að eitthvað sje hægt, *auðlærður, auðskilinn, auðsær, auðsóttur,* o. s. frv.

*al* er af *allur,* og táknar hið hæsta stig, sem eitthvað

getur á komizt: *almætti, alvæpni, almenningur, alvitur, alheill, algjör, alverkja*, o. s. frv.

*all* er í rauninni meginhlutinn af *allur*, en táknar í hinni fornu tungunni sama sem *mjög*, en nú dregur það fremur úr, eða gjörir eigi mjög mikið úr því, sem það orðið táknar, sem skeytt er aptan við það, t. a. m. *allgóður, allvitur, allvíða, allnærri*, o. s. frv.

*and* eða *önd* (= á móti): *andvirði, andlit, andróður, andvígur, andsælis; öndverður*, o. s. frv.

*afar* herðir á: *afarkostir, afarmikill, afarreiður*, o. s. frv.

*ör*, er táknar greiningu frá einhverju: *örvita, örendur, erlendis*; eða herðir á: *örmjór, örstuttur*, o. s. frv.

*einka*: *einkaleyfi, einkamál, einkasonur*. Þetta orð mun eiginlega vera eig. fleirt. af kvennkenndu nafni, sem aldrei kemur fyrir sjerstakt. Af sama nafninu mun *einkar* vera, eig. eint., sem er haft til áherðingar með einkunnum og atviksorðum, t. a. m. *einkar-blíður, einkar-vel*, o. s. frv.

*ofur* herðir á merkingu orðs þess, sem við það er skeytt: *ofurefli, ofurlítill, ofurungur*, o. s. frv.

*ó* áður *ú*, hefur neitun í sjer fólgna: *óhóf, ófriður; ókunnur, ónýtur; ónýta, ógleðja*; *óvíða, ósjaldan*, o. s. frv.

*gagn* = *gegn*: *gagnsær, gagnorður, gagnspilltur*, o. s. frv.

*tor* táknar örðugleika: *tornæmi, tortryggni, torskilinn, torfær, torsóttur, tortryggur, tortryggja*, o. s. frv.

*sí* táknar eitthvað stöðugt: *sífella, sífelldur, síþyrstur*, o. s. frv. *sí* er og haft sjerstakt í orðtækinu *sí* og æ.

*sví* (= *svei*) í *svívirða, svívirðing, svívirðulegur, svívirðulega*.

*for* (= *fyrir*): *forfaðir, forspár, forráð, forstreymis*, o. s. frv. Stundum táknar þetta orð eitthvað óþægilegt: *fordæma, forbænir, forsending*, o. s. frv.

*fjöl* táknar mergð: *fjölmenni, fjölkynngi; fjölmennur, fjölbyggður; fjölyrða*, o. s. frv.

*frum* táknar eitthvað upphaflegt, eða hið fyrsta sinnar tegundar: *frumrit, frumeðli, frumburður, frumgetinn*, o. s. frv.

*van* táknar skort, eða að eitthvað sje rangt: *vanmætti, vanheilsa*; *vanfær, vanstilltur; vanvirða, vanhelga*, o. s. frv. *van* er og haft sem sjerstakt orð í orðtækinu *of* eða *van*.

*var* hefur líka merkingu og *van*: *varmenni, varmennska, vargefinn*, o. s. frv.

*mis* táknar einhvern mismun: *misdauði, misstór, mislitur*. Stundum táknar það, að eitthvað sje rangt: *misminni, misskilningur, mismæli, misstíga* (sig). Stundum verður það sömu merkingar og *ó*, t. a. m. *missáttur, misjafn, misþyrma*, o. s. frv. Þetta orð er líka haft einstakt í orðtækinu: *að fara á mis við eitthvað.*

Auk þessa má enn fremur geta um *tví, þrí, fer*, með því þessar myndir aldrei eru hafðar nema í samskeyttum orðum, enda þótt þau sjeu frumstofnarnir í *tveir, þrír, fjórir;* þannig t. a. m. *tvídrægni, tvíbýli, tvíeggjaður*; *þríhyrningur, þrítugur, þrístrendur; ferhyrndur, ferfættur,* o. s. frv.

